# Lærdómsbók

í

evangelisk-kristilegum

**trúarbrögðum**

handa

**únglíngum.**

Kostar óinnbundin 20 sk.



**Akureyri.**

Prentuð á kostnað prentsmiðjunnar þar, af H. Helgasyni.

**1854.**

# Aðvaran
til
# kennendanna.

---

1) Sèrhver meiníng, hvort heldur hún er í lærdóms og ritníngar-greinum, ellegar í athugasemdum og útskýríngum greinanna, á nákvæmlega og skilmerkilega að útþýðast fyrir barninu, áður en það lærir nokkuð af þeim utan að.

2) Þegar börn virðast svo tornæm, að ei geti lært alla lærdómsbókina, þá eiga viðkomendur að ráðfæra sig við sóknarprest sinn, og er þá undir hans áliti komið, hvort barnið á að læra meir en lærdómsgreinirnar, og þá biblíustaði, sem vitnað er til, og hjá standa. En þar sem þetta leyfi kemur ei til, á barnið að læra allt, eins smærra sem stærra letrið.

3) Kennendurnir eiga að láta börnin leita að þeim greinum í biblíunni, sem til er vísað, en þó ekki eru prentaðar. Þar sem mörg börn eru, eiga þeir að láta þau lesa þær til skiptis, og með stuttum spurníngum út úr koma þeim í skilníng um meiníngunu.

4) Sèrhver lærdómsgrein í bókinni er svo skiljanlega samantekin, og atriðisorðin aðgreind, að hægt er hverjum einum að spyrja út úr þeim; þess vegna gjörist eingin þörf að prenta spurníngarnar, einkum þar raunin er ólýgnust, að opt og tíðum hafa bæði kennendur og lærendur minna þeinkt út í sannleikann vegna spurnínganna.

Sá litli

Lúters

# Katekismus.

Þetta eru

## Tíu laga-boðorð guðs.

### Fyrsta boðorð.

*Eg er drottinn guð þinn, þú skalt ekki hafa annarlega guði fyrir mèr.*

Hvað er það?

Það er: vèr eigum yfir alla hluti fram, guð að óttast, hann að elska, og á hann einn að trúa.

### Annað boðorð.

*Þú skalt ekki leggja nafn drottins guðs þíns við hègóma, því drottinn mun ekki halda þann saklausan, sem brúkar hans nafn hègómlega.*

Hvað er það?

það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Eingum eigum vèr ílls að biðja í hans nafni, ekki sverja við það, nè fjölkýngi fremja, ekki ljúga nè svíkja; heldur eigum vèr guðs nafn að ákalla í öllum vorum nauðsynjum, það að tilbiðja, lofa það og því þakkir að gjöra.

## Þriðja boðorð.

*Minnstu að helga hvíldardaginn drottins guðs þíns.*

Hvað er það?

það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Að vèr ekki fyrirlítum prèdikunina nè hans orð; heldur eigum vèr það heilagt að halda, gjarnan heyra það og læra.

## Fjórða boðorð.

*Heiðra skaltu föður þinn og móður, svo þèr vel vegni, og þú verðir lánglífur á jörðunni.*

Hvað er það?

það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Að vèr ekki fyrirlítum vora foreldra, nè þá sem yfir oss eru boðnir, ekki þá til reiði reit-

um, heldur þá í heiðri höfum, þjónum þeim og hlýðnir sèum, elskum þá og virðíng veitum.

## Fimta boðorð.

*Þú skalt ekki mann deyða.*

Hvað er það?

Það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Að vèr ekki meiðum hold vors náúnga, eða gjörum honum mein í nokkru; heldur eigum vèr honum að bjarga og viðhjálpa í öllum hans lífs nauðsynjum.

## Sjötta boðorð.

*Þú skalt ekki hórdóm drýgja.*

Hvað er það?

Það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Að vèr lifum hreinferðuglega bæði í orðum og verkum, og að hver einn elskí og í heiðri hafi sína ekta-persónu.

## Sjöunda boðorð.

*Þú skalt ekki stela.*

Hvað er það?

Það er: vèr eigum að óttast og elska guð.

Að vèr ekki grípum góz eða penínga vors náúnga, eða með fölskum kaupeyri eða undirhyggju undir oss drögum; heldur eigum vèr honum að hjálpa, svo hans góz og uppheldi ávaxtist og varðveitist.

## Áttunda boðorð.

*Þú skalt ekki bera falskan vitnisburð á móti þínum náúnga.*

Hvað er það?

Það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Að vèr ekki ránglega ljúgum nokkru á vorn náúnga, ekki svíkjum, baktölum eða ófrægjum hann í nokkru; heldur eigum vèr hann að afsaka, allt gott um hann að tala, og færa alla hluti til betra vegar.

## Níunda boðorð.

*Þú skalt ekki girnast hús náúnga þíns.*

Hvað er það?

Það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Að vèr ekki með flærð stundum eptir arfi eður fasteign vors náúnga, eður undir oss drögum með yfirvarpi laga og rèttinda; held-

ur eigum vèr þar til að hjálpa og styrkja, að hann hafi sitt allt óskaddað.

## Tíunda boðorð.

*Þú skalt ekki girnast kvinnu náúnga þíns, ekki þjón nè þjónustukvinnu, ekki uxa nè asna, og ekkert það hans er.*

Hvað er það?

Það er: vèr eigum að óttast og elska guð. Að vèr ekki burt tælum eða lokkum frá vorum náúnga, hans eiginkvinnu, þjónustufólk eða kvikfè; heldur eigum vèr að áminna og ráðleggja, að hver og einn sè samt, og ástundi að þjóna, það honum skyldugt er.

Hvað segir guð um öll þessi boðorð?

*Hann segir svo í 2. Mós. b. 20, 5. 6. Eg er drottinn þinn guð, eg er vandlátur guð, sem læt straff fyrir feðranna ránglæti koma fram á börnunum í þriðja og fjórða lið, það er að segja á þeim, sem mig hata; eg er líka sá, sem auðsýni miskunsemi í þúsund liðu á þeim, sem mig elska, og við þá, sem varðveita mín boðorð.*

Hvað er það?

Það er: guð hótar þeim öllum pínu, sem

afvíkja þessum hans boðorðum; því eigum vèr að óttast og hræðast hans straff, og ekkert að gjöra á móti hans boðorðum; en þeim öllum, sem þessi hans boðorð halda, lofar hann sinni náð, miskun og öllum góðum hlutum; þar fyrir eigum vèr guð að elska, trúa honum og treysta, og eptir hans boðorðum gjarnan að gjöra.

---

# Trúarjátníngin.

## Fyrsta grein.

Um sköpunina.

*Eg trúi á einn guð, föður almáttugan, skapara himins og jarðar.*

Hvað er það?

Það er: eg trúi, að guð hafi skapað mig, ásamt öllum öðrum skepnum, og að hann hafi gefið mèr önd og líkama, augu og eyru, og alla limi, þar með skyn og skilníngarvit, og að hann öllu þessu enn þá við makt heldur. Hèr til veitir hann mèr og fyrirsjer nóglega, og daglega gefur hann mèr klæði og

skæði, mat og drykk, hús og heimili, föður og móður, akur og kvikfè, og allt það, sem gott er, með öllu því eg með þarf til þessa lífs uppheldis. Hann verndar mig og varðveitir frá öllum skaða og háska og öllum íllum hlutum. Allt þetta gott veitir hann mèr af sinni einskærri, föðurlegri, guðlegri góðgirnd og miskun, án allrar minnar verðskuldunar. Fyrir hvað allt eg á honum þakkir að gjöra, honum þjóna og hlýðinn að vera. Þetta eru vissuleg sannindi.

---

## Önnur grein.

Um endurlausnina.

*Eg trúi á Jesúm Krist, son hans eingetinn drottinn vorn, hver eð getinn var af heilögum anda, fæddur af Maríu meyu, píndur undir Pontsíó Pílató, krossfestur, deyddur og grafinn: niðurstè hann til helvítis, en á þriðja degi reis hann upp frá dauðum, uppstè hann til himna, situr nú til guðs föðurs almáttugs hægri handar, og þaðan mun hann koma að dæma lifendur og dauða.*

Hvað er það?

Það er: eg trúi, að Jesús Kristur sè sannur guð, af föðurnum getinn fyrir allar aldir, líka sannur maður, fæddur af Maríu meyu; að hann sè minn drottinn, sem mig glataðan og fyrirdæmdan mann hefir afrekað, endurleyst og frelsað frá öllum syndum, dauðanum og djöfulsins valdi, ekki með gulli eða silfri, heldur með sínu heilaga, dýrmæta blóði, og sinni saklausu pínu og dauða, svo að eg sè hans eiginleg eign, lifi undir hans valdi í hans ríki, honum þjóni í eilífu rèttlæti, meinleysi og sáluhjálp, líka sem hann er sjálfur af dauðanum upprisinn, lifir og ríkir að eilífu. Þetta eru vissuleg sannindi.

---

## Þriðja grein.

Um helgunina.

*Eg trúi á heilagan anda, og að sè ein heilög, almennileg, kristileg kirkja, sem er samneyti heilagra, fyrirgefníng syndanna, holdsins upprisa og — eptir þetta líf — eilíft líf.*

Hvað er það?

Það er: eg trúi, að eg geti ekki af sjálfs

míns eigin krapti eða skilníngi trúað á Jesúm Krist minn drottinn, eða til hans komizt; helldur hefir heilagur andi mig, með guðspjallanna kenningu, kallað og upplýst með sínum ástgjöfum, helgað mig og viðhaldið í rèttri trú; líka sem hann alla aðra kristna menn á jörðu, kallar, samansafnar, upplýsir, helgar, og í rèttri trú á Jesúm Krist varðveitir; í hverri kristilegri kirkju hann náðarsamlega fyrirgefur mèr og öllum trúuðum, daglega allar syndir, og á efsta degi mun hann uppvekja mig og alla menn af dauða, og gefa mèr með öllum rètt-trúuðum, fyrir Jesúm Krist, eilíft líf og sáluhjálp. Þetta eru vissuleg sannindi.

---

# Drottinleg bæn.

*Faðir vor, þú, sem ert á himnum.*

Hvað er það?

Það er: guð vill hèr með tilleiða oss og lokka, að vèr trúa skulum, að hann sè vor

rèttilegur faðir, og vèr hans sannarleg börn, svo vèr þess heldur með fullu trúnaðartrausti megum hann biðja, eins og góð börn biðja sinn elskulegan föður.

## Fyrsta bæn.

*Helgist þitt nafn.*

Hvað er það?

það er: guðs nafn er sannarlega í sjálfu sèr heilagt, þó vèr biðjum ekki; en vèr biðjum í þessari bæn, að það einnig helgist hèr með oss.

Hvernig skeður það?

þegar guðs orð kennist rèttilega og hreinlega, og vèr eptir því lifum heilaglega, eins og guðs börnum hæfir; þar til hjálpi oss vor elskulegi faðir á himnum! En hver sem öðruvísi kennir eða lifir, en guðs orð býður, sá vanhelgar guðs nafn á meðal vor; þar frá varðveiti oss vor elskulegi himneski faðir!

## Önnur bæn.

*Tilkomi þitt ríki.*

Hvað er það?

Það er: guðs ríki kemur að sönnu án vorrar bænar af sjálfu sèr til; en vèr biðjum í þessari bæn, að það einnig komi til vor.

Hvernig skeður það?

Þegar guð gefur oss sinn heilaga anda, sá oss veitir þá náð, að vèr trúum hans heilaga orði, lifum heilaglega hèr stundlega, en annars heims eilíflega.

## Þriðja bæn.

*Verði þinn vilji, [redacted] á jörðu, sem á himnum.*

Hvað er það?

Það er: guðs góður og náðugur vilji verður á himnum, þó vèr biðjum ekki; en vèr biðj- [redacted] í þessari bæn, að hans vilji verði hèr á meðal vor.

Hvernig skeður það?

Þegar guð ónýtir og hindrar öll íll ráð og vondan vilja þeirra, sem því valda, að guðs nafn vanhelgast og hans ríki náir ekki til vor að koma, sem eru: djöfullinn, heimurinn og vor holdlegur vilji; heldur styrkir hann oss og stöðuga gjörir í sínum orðum og í trúnni,

allt til vorra æfiloka; þetta er hans miskunsamur og góður vilji.

## Fjórða bæn.

*Gef oss í dag vort daglegt brauð.*

Hvað er það?

Það er: guð gefur að sönnu daglegt brauð jafnvel vondum mönnum, þó vèr biðjum ekki; en vèr biðjum í þessari bæn, að hann láti oss vort daglegt brauð viðurkenna, og með þakklæti til vor meðtaka.

Hvað kallast daglegt brauð?

Það kallast allt það, sem nauðsynlegt er til lífsbjargar, sem er: matur og drykkur, klæði og skæði, hús og heimili, töður og eingjar, kvikfènaður, góz og peníngar, góð ekta-persóna, hlýðin börn, dyggt þjónustufólk, trúir og frómir yfirmenn, góð almúgans stjórn, hagstæð veðurátt, friður, heilbrigði, siðsemi, heiður, góðir vinir, trúfastir nágrannar, og allt annað þessu líkt.

## Fimta bæn.

*Fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vèr og fyrirgefum vorum skuldunautum.*

Hvað er það?

það er: vèr biðjum í þessari bæn, að faðir vor himneskur vilji ekki álíta vorar syndir, svo hann, fyrir þeirra skuld, vilji ekki veita oss vora bæn — því vèr erum allra þeirra hluta ómaklegir, sem vèr hann um biðjum, og höfum það ekki verðskuldað — heldur að hann vilji oss það allt gefa af sinni eiginlegu náð; því daglega syndgum vèr, og verðskuldum ekki annað en straff; svo viljum vèr einnig þar á móti fyrirgefa af hjarta, þeim sem oss á móti brjóta, og gjöra þeim gott, sem við oss misgjöra.

## Sjötta bæn.

*Eigi leið þú oss í freistni.*

Hvað er það?

það er: guð freistar að sönnu einkis manns; en vèr biðjum í þessari bæn, að hann vilji

vernda oss og varðveita frá andskotans, heimsins og holdsins vèlum, svo vèr hröpum ekki fyrir þeirra tilteygíngu í vantrú, örvæntíngu eður aðrar syndir og lesti; og þó vèr freistumst af öllu þessu, þá láti hann oss um síðir yfirvinna og sigrinum halda.

## Sjöunda bæn.

*Heldur frelsa oss frá illu.*

Hvað er það?

það er: hèr biðjum vèr alls í einu í þessari bæn, að faðir vor himneskur frelsi oss frá öllu íllu til lífs og sálar, farsældar og heiðurs; en að síðustu, þegar vor dauðastund er komin, gefi hann oss góðan afgáng og taki oss miskunsamlega til sín, úr þessum eymdardal, inn í himnaríki. Amen.

Hvað er það?

það er: að eg skal vera fullviss, að þessar vorar bænir sèu vorum himneska föður þakknæmilegar og af honum heyrðar; því hann hefir sjálfur skipað, að vèr skyldum með þess-

um hætti biðja, og hefir lofað, að hann vilji oss bænheyra. Amen, amen, það er: já, sannarlega, það skal svo vera.

---

## Skírnar sakramentið.

1. Hvað er skírn?

Skírnin er ekki einsamalt vatn, heldur er hún það vatn, sem saman er reyrt og bundið með guðs boðorði, og með guðs orði samteingt.

2. Hvað er það guðs orð?

*Það vor herra Jesús Kristur sagði hjá Matteus í 28. kapítula: Farið og gjörið allslags þjóðir að mínum lærisveinum, og skírið þær til nafns föðurs og sonar og heilags anda.*

3. Hvað útvegar skírnin oss og veitir?

Hún útvegar oss og veitir fyrirgefníngu syndanna, frelsar oss frá dauðanum og djöflinum, og gefur þeim öllum eilífa sáluhjálp, sem trúa því, er guðs orð og fyrirheit lofa.

4. Hver eru þau guðs orð og fyrirheit?

*Þau vor herra Jesús Kristur segir hjá Markúsi í 16. kapítula: Hver sem trúir og verður skírður, sá mun hólpinn verða, en hver sem ekki trúir, sá mun fordæmast.*

5. Hvernig fær vatnið verkað svo veglega hluti?

Vatnið má aldrei slíks orka, heldur veitir það guðs orð — hvert að er í og með vatninu — og trúin, hver að slíkum guðs orðum í vatninu trúir; því fyrir utan guðs orð er vatnið einsamalt vatn, en eingin skírn; en þegar guðs orð samlagast vatninu, þá er það skírn. Það er náðarfullt lífsins vatn og endurgetníngarlaug í heilögum anda, eins og Páll postuli segir, í sendibrèfinu til Títusar, í 3ja kapítula.

*Eptir sinni miskunsemi hefir guð oss hólpna gjört, með endurgetníngar-lauginni og endurnýúngunni, sem skeður af heilögum anda, hverjum hann hefir nóglega úthellt yfir oss fyrir Jesúm Krist vorn lausnara, svo vèr, rèttlættir fyrir hans náð, yrðum erfíngjar eilífs*

*lífs eptir voninni. — þessi orð eru sönn og trúanleg.*

6. Hvað merkir þvílík vatnsskírn?

Hún merkir það, að sá hinn gamli Adam í oss, á daglega að drekkjast og deyðast fyrir iðrun og yfirbót, með öllum syndum og vondum girndum, og síðan daglega framkoma og upp aptur rísa nýr maður, sá er lifa skal í rèttlæti og heilagleika fyrir guði æfinlega.

7. Hvar stendur það skrifað?

*Páll postuli segir í sendibrèfinu til Rómverja 6ta kapítula: Svo erum vèr með Kristi greptraðir í skírninni til dauðans, að líka sem Kristur er uppvakinn frá dauðum fyrir dýrð föðursins, svo eigum vèr að gánga í nýju líferni.*

---

# Altaris sakramentið.

1. Hvað er sakrament altarisins?

Altaris sakramentið er sannarlegt

hold og blóð drottins vors Jesú Krists, undir brauði og víni, af sjálfum Jesú Kristi innsett, oss kristnum mönnum að eta og drekka.

2. Hvar stendur það skrifað?

Svo skrifa þeir heilögu guðspjallamenn, Matteus, Markús, Lúkas og postulinn Páll.

*Vor herra Jesús Kristur, á þeirri nótt sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þakkir og braut það, og gaf sínum lærisveinum, og sagði: takið og etið, það er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn. Gjörið það í mína minníngu!*

*Sömuleiðis eptir kvöldmáltíðina, tók hann kaleikinn, gjörði þakkir, gaf þeim hann, og sagði: drekkið allir hèr af, þetta er kaleikur ens nýa testamentis í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist til fyrirgefníngar syndanna. Gjörið þetta, svo opt sem þèr það drekkið, í mína minníngu.*

3. Hvað stoðar oss með þvílíkum hætti að eta og drekka hèr af?

Það sýna mèr þau orð, sem hèr standa: fyrir yður gefst og úthellist til fyrirgefníngar syndanna; því oss veitist fyrir þessi orð, í sakramentinu, syndanna fyrirgefníng, eilíft líf og sáluhjálp, því hvar syndanna fyrirgefníng er, þar er einnig lífið og sáluhjálpin.

4. Hvernig fær líkamleg bergíng verkað svo mikla hluti?

Bergíng brauðs og víns verkar það í eingan máta, heldur orðin, sem hèr standa: fyrir yður gefst og úthellist til fyrirgefníngar syndanna, hver orð að eru hjá líkamlegri bergíngu svo sem höfuðstykki í þessu sakramenti. Hver sem þessum orðum trúir, hann öðlast allt það, er þau inni halda og upp á hljóða, sem er syndanna fyrirgefníng.

5. Hver neytir þessa sakramentis maklega?

Að fasta og sig líkamlega þar til að búa,

er að sönnu góð ytri siðsemi; en sá er sannarlega maklegur og velskikkaður, sem trúir þessum Krists orðum: fyrir yður gefst og úthellist til fyrirgefníngar syndanna. En hver sem ekki trúir þessum orðum og efar þau, hann er ómaklegur; því þetta orðið: fyrir yður, krefur fullkomlegrar trúar í hjartanu.



# Fyrsti kapítuli.

## Um guðs verk og hans eiginlegleika.

---

### I. Hvernig vèr [redacted] þekkíngu [redacted] guð.

§. 1. Oss mönnunum ríður mjög mikið á, að vèr lærum að þekkja guð; því annars gætum vèr ekki skilið, hvernig heimurinn er orðinn til; vèr vissum þá ekki heldur, hvers vèr mættum vænta um vora hagi eptir dauðann, og hefðum einga óbrigðula hjálp að reiða oss upp á í vorum mótgángi.

Merk: það eru kölluð trúarbrögð, að þekkja guð og hans vilja, og með hverju móti vèr eigum að heiðra hann og hlýða honum.

§. 2. Undir nafninu heimur, skilst al-

mennilega bæði himin og jörð, með öllu því, sem í þeim er.

Merk: a) Auk sólarinnar og túnglsins, sjáum vèr á himninum mikinn fjölda af stjörnum. Meðal þeirra eru nokkrar, sem kallast plánetur, allt eins kríngióttir hnettir eins og vor jörð, og er ekki ólíklegt, að í þeim búi margskonar lifandi skepnur. En þær eiginlegu stjörnur eru sólir, eins og sú, sem skín næst oss, og upplýsa með sama hætti hnetti þá, sem þeim eru nálægastir. Túnglið er hnöttur, eins og jörðin, sem fær, eins og hún, ljós sitt af sólunni.

b) Á jörðunni teljast hèr um tuttugu og fimm þúsundir lifandi skepna af ýmsu kyni, auk mannanna, sem eru tals þúsund milliónir — en hver ein millíón er sama sem þúsundsinnum þúsund. Aðrar lifandi skepnur, sem til aðgreiníngar frá mönnunum, kallast skynlausar og mállausar, skiptast í dýr, fugla, fiska, orma, skorkvikindi og þær skepnur, sem lifa bæði í vatni og á landi. Sèrhver af kynferðum þessum inniheldur margs konar tegundir, sem eru hver annari ólíkar.

§. 3. a) Hver, sem vill gæta skynsemi sinnar, á hægt með að þekkja, að heimurinn hefir ekki getað orðið til af sjálfum sèr, heldur en hús nokkurt eða þorp hafi getað

byggt sig sjálft; því einginn sá hlutur er til, sem ekki hefir haft sína orsök, af hverri hann er kominn.

b) Heimurinn hefir ekki getað verið til frá eilífð; því vèr sjáum, að allir hlutir eru umbreytanlegir, og bæði menn og skepnur, ásamt öðru fleiru, hafa upphaf og endir.

§. 4. Frá eilífð hlýtur að hafa verið ein æðsta vera, sem skapað hefir heiminn, eða ráðið fyrir upptökum hans og niðurröðun. Þessi vera kallast guð, og þessi guð hlýtur að vera sá allra vísasti, máttugasti og gæzkuríkasti, því þeim mörgu og marghåttuðu hlutum, sem eru í heiminum, er svo vísdómslega niður raðað, og allir eru þeir mjög nytsamlegir.

§. 5. Guð þekkist ljósast af sínu orði, hvert lesa má í þeirri heilögu ritníngu, sem kallast biblía.

§. 6. Það er víst, að þann guðs vilja, sem manneskjurnar áhrærir, er að finna í biblíunni, og þess vegna kallast hún

guðs orð; því hún kennir oss fullkomlega og augljóslega allt það, sem syndug manneskja þarf að vita sèr til endurbótar, huggunar og sannrar velferðar, bæði í þessu og tilkomanda lífi.

§. 7. Guð hefir sjálfur staðfest sitt orð, með því að hann hefir gefið þeim mönnum, sem það hafa ritað, bæði speki til að auglýsa þá hluti, sem einginn maður gat vitað af sjálfum sèr, og líka krapta til að framkvæma þau verk, sem einginn hefði getað gjört með neinslags náttúrlegum meðölum.

Merk: a) Í heilagri ritníngu finnast þeir spádómar, [redacted] fyrirsegja markverða tilburði, er eingin manneskja gat á þeim tímum fyrir fram sèð, sem þó laungu þar eptir eru í ítrasta máta uppfylltir. Guð einn, [redacted] er alvitur, gat veitt þessum heilögu mönnum þekkíngu um þvílíka atburði. Es. 21, 1 — 10. 44, 21 — 28. Jer. 31, 31 — 40. 50, 1 — 46. Dan. 9, 20—27. Matt. 24, 1—28.

b) Í heilagri ritníngu er talað um kraptaverk, sem eru þvílík yfirnáttúrleg verk, að þau útheimta guðdómlegan krapt, þar ekki var mögulegt að gjöra þau á þvílíkan hátt með náttúrunnar kröptum. Guð, [redacted] er almáttugur, hefir einúngis brúkað þá heilögu

menn til að gjöra þvílík dásemdarverk. 2. Mós. b. 14, 21—30. Matt. 8, 6—13. Jóh. 2, 1—11. 6, 1—15. 9, 1—38. 11, 17—53. Post. gb. 3, 1—8.

§. 8. a) Þeir menn, sem undir guðs stjórnun, og með hans aðstoð, hafa skrifað þá heilögu ritníngu, kallast yfir höfuð að tala: spámenn, guðspjallamenn og postular.

b) Spámennirnir, guðspjallamennirnir og postularnir, voru útvaldir af guði til að vera hans sendiboðar meðal manneskjanna, hverjum þeir áttu að kunngjöra hans vilja, og framkvæma hans ásetníng, á þeim stað og tíma, sem hans speki áleit að vera þènanlegast.

§. 9. a) Spámennirnir hafa skrifað þann hluta ritníngarinnar, sem kallast gamla testamentið, áður en Kristur fæddist.

b) Gamla testamentið inniheldur ýmislegar bækur, í hverjum guðs vilji var auglýstur Gyðíngum, þeirri þjóð, sem Messías, heimsins lausnari, átti eiga að rekja kyn sitt til; en þessar bækur eru enn þá í mörgum greinum nytsamlegar handa

oss, og þènanlegar til lærdóms, huggunar og viðvörunar.

Merk: a) Bækur gamla testamentisins eru eptirfylgjandi: fimm bækur Mósis, Jósúa bók, Dómara bókin, Ruts bók, fyrri og síðari Samúels bók, fyrri og síðari konúnganna bók, fyrri og síðari Kroníku bók, Esdra bók, Nehemie bók, Esters bók, Jobs bók, Davíðs saltari, Salómons orðskviðir, prèdikarans bók og lofkvæðið. Fjórir stærri spámennirnir: Esajas, Jeremías með hans harmagráti, Esekíel og Daníel. Tólf smærri spámennirnir: Hóseas, Jóel, Amos, Obadías, Jónas, Mikkeas, Nahúm, Habakuk, Seffonías, Haggeus, Sakkarías, Malakías.

b) Kristur hefir staðfest, að bækur gamla testamentisins sèu af guði, Lúk. 24, 25. 27, 44; og á Krists tíðum voru allar þessar bækur saman safnaðar í gamla testamentinu, sem enn eru þar.

§. 10. a) Guðspjallamennirnir og postularnir hafa skrifað þann hluta ritníngarinnar, sem kallast nýa testamentið, eptir að Kristur fæddist.

b) Nýa testamentið inniheldur í ýmislegum bókum allt það, sem guð hefir viljað augljóst gjöra fyrir öllum heiminum, um syndaranna endurlausn vegna

Krists, trúna, guðs ótta og dygðina, sem útheimtist til sáluhjálpar.

Merk: a) Nýa testamentisins bækur eru eptirfylgjandi: fjögur guðspjöll, nefnil. Matteusar, Markúsar, Lúkasar og Jóhannesar; postulanna gjörníngabók; 14 Páls sendibrèf, sem eru: eitt til Rómverja, tvö til Korintumanna, eitt til Galatamanna, eitt til Efesusmanna, eitt til Filippímanna, eitt til Kólossamanna, tvö til Tessaloníkumanna, tvö til Tímóteusar, eitt til Títusar, eitt til Fílemons, eitt til enna Hebresku: Jakobs pistill, tvö brèf Pèturs, þrjú brèf Jóhannesar, Júdasar brèf og Jóhannesar opinberíngarbók.

b) Kristur hefir með sínum kraptaverkum sannað, að hann væri sendur af guði, og með sama hætti er trúverðugleiki guðspjallamannanna og postulanna staðfestur, Jóh. 10, 37. 38. 14, 10. 11. Post. g. b. 3, 1—16. Skrif hinna elztu kristinna lærifeðra innihalda þá vitnisburði, sem gjöra augljóst, að guðspjallamennirnir og postularnir hafi skrifað þær nýa testamentisins bækur, sem þeim eru eignaðar.

§. 11. Eptir sèrlegasta inntakinu skiptist guðs orð í lögmálið og evangelíum.

a) Í lögmálinu sýnir guð oss það ílla, sem vèr eigum að forðast og það góða, sem

vèr eigum að ástunda; það leiðir oss einnig fyrir sjónir, straff fyrir hið ílla, til viðvörunar, og umbun fyrir hið góða, til uppörfunar.

b) Evangelíum inniheldur guðs loforð, um syndanna fyrirgefníngu og sáluhjálp vegna Jesú Krists, hver eð endurleysti heiminn með sinni pínu og dauða; auk þessa kennir það oss, eptir hverri röð og reglu, og með hverju móti vèr getum orðið hluttakandi í fyrirgefníngu syndanna, og þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir oss útvegað.

Merk: Í fyrsta parti fræðanna er talað um lögmálið, sem inniheldur guðs tíu boðorð; en evangelíum er í fjórum síðari pörtunum, sem innihalda þrjár greinir trúarinnar, sjö bænir í Faðir vor, ásamt með skírnar og altaris sakramentunum.

---

## II. Hvað ritníngin kennir oss um guð, yfir höfuð að tala.

§. 1. Heimsins skapari er sá einasti sanni guð, og einginn nema hann.

*Es.* 45, 18. *Svo sagði drottinn, sá eð himininn hefir skapað, sá guð, sem jörðina hefir*

*tilbúið: Eg em drottinn, og einginn annar guð er til, nema eg.*

1 *Kor.* 8, 4. *Vèr vitum, að skurðgoð heiðíngjanna eru ekkert, og einginn annar guð er til, nema sá eini.*

Merk: a) Heiðíngjarnir dýrkuðu marga hjáguði, og leituðu stundum til eins, stundum til annars, en gátu samt ekki vitað, til hvers af þeim þeir helzt skyldu snúa sèr, með vissustu von um hjálp og aðstoð.

b) Vèr höfum orsök til að álíta sjálfa oss lángtum sælli, þar vèr þekkjum sannan guð, og vitum, að hann er einn einasti; þar fyrir leitūm vèr hælis hjá honum einum, og setjum vort traust og athvarf til hans, í öllum vorum nauðsynjum.

§. 2. Ritníngin kennir oss að þekkja þann einasta sanna guð, sem föður, son og heilagan anda, og tileinkar bæði föður, syni og heilögum anda, þá einu og sömu guðdómlegu veru, í hverri þeir eru óaðgreinanlega sameinaðir hver með öðrum, með þeim hætti, sem vèr fáum ekki skilið.

Matt. 28, 19. Jesús býður sínum lærisveinum: Farið og gjörið allar þjóðir að mínum lærisveinum, og skírið þær til nafns föðursins, sonarins og þess heilaga anda.

Jóh. 15, 26. Jésús, svo sem eingetinn son-

ur föðursins, segir: En þá er sá huggarinn kemur, hvern eg mun senda yður frá föðurnum, sá sannleiksins andi, sem af föðurnum framgeingur, hann mun vitna um mig. 2 Kor. 13, 13.

Merk: Það er orðið að venju meðal kristinna manna, að kalla guð þrennan eða þríeinan, til að sýna þar með, að faðir, sonur og heilagur andi hafi einn og sama allrahærsta guðdóm sameiginlega hver með öðrum. Jóh. 10, 30. 16, 15. Matt. 3, 16. 17. Jóh. 14, 16.

§. 3. Faðir, sonur og heilagur andi, eru jafnt hluttakandi í þeirri sömu eilífð, mætti, gæzku og speki; þeir hafa eina og sömu sameiginlega dýrð.

Jóh. 5, 19—22. Jesús segir: Hvað helzt faðirinn gjörir, það sama gjörir sonurinn eins, því svo sem faðirinn uppvekur dauða og gjörir lifandi, svo lífgar og sonurinn allt eins, hverja sem hann vill, svo að allir skuli heiðra soninn, eins og þeir heiðra föðurinn. Líka svo játar sjálfur Jesús, Jóh. 17, 5. að hann hafi verið í dýrð hjá föðurnum, áður en heimurinn var til. Jóh. 1, 1—3, 14. Róm. 9, 5. Hebr. 1, 3.

1 Kor. 2, 10. 11. Postulinn Páll segir um heilagan anda: Guð hefir látið sinn anda opinbera oss sín vísdómsfullu ráð, því andinn

rannsakar alla hluti, og jafnvel guðs leynda ráð; en hver manneskjanna er sú, er viti, hvað í manninum er, nema mannsins andi, sem í honum er? svo líka veit einginn, hvað í guði er, nema guðs andi. Með líkum hætti sýnir og postulinn, að það hafi verið sá heilagi andi, sem útdeildi yfirnáttúrlegum náðargáfum í hinni fyrstu kristni, hvar á meðal hann einnig telur makt til að gjöra kraptaverk; og síðan segir hann, 1 Kor. 12, 4—11: En allt þetta verkar kröptuglega sá eini og sami andi, er útskiptir sèrhverjum út af fyrir sig, eptir því sem hann vill. Post. gb. 5, 3. 4. 1 Kor. 3, 16.

Merk: a) Það er sannarleg og mikilvæg huggun fyrir oss, að vèr vitum, að sonurinn Jesús Kristur, sem hefir kennt oss, hverju vèr eigum að trúa, og endurleyst oss með sinni pínu og dauða, er sannur guð, ásamt með föðurnum: því vegna þess kunnum vèr, með fullri sannfæríngu, að reiða oss upp á hann, og fylgja honum í öllu með staðföstu trúnaðartrausti, líka og án efablendni tilbiðja hann.

b) Oss er það mikilsvert, að vèr vitum, að sá heilagi andi, sem með guðs orði verkar til vorrar upplýsíngar og endurbótar, er sannur guð, ásamt með föðurnum og syninum: því þess vegna erum vèr nú fullvissir um, að vor betran er möguleg, ef vèr færum oss guðs orð rèttilega til nota, og eingin vantrú eða efasemi getur haldið oss frá, að

tilbiðja heilagan anda, með sama trúnaðartrausti, sem föðurinn og soninn.

---

## III. Hvað ritníngin kennir oss um guðs veru og eiginlegleika.

§. 1. Guð er andi, eður ósýnileg vera, sem hefir að sönnu frjálsræði og skynsemi, en eingan líkama eður limi; þess vegna getum vèr ekki sèð hann með líkamlegum augum, ekki heldur útmálað hann með neinni mynd.

Jóh. 4, 24. Guð er andi, því eiga þeir, sem tilbiðja hann, að gjöra það með rèttum anda. 1 Tím. 1, 17.

Merk: Guð dýrkast og vegsamast bezt með hreinum þaunkum og ráðvöndum lifnaði, því þess konar dýrkun á bezt við þann guð, sem er andi.

§. 2. Guð er eilífur, og hefir hvorki upphaf nè endir; hann er ætíð óumbreytanlegur, og verður jafnan hinn sami.

Sálm. 90, 2. Áður en fjöllin voru til, og þú tilbjóst jörðina, ertú guð, og það frá eilífð til eilífðar. Sálm. 102, 26—28.

Jak. 1, 17. Hjá föður ljósanna er eingin umbreytíng, nè umbreytíngar skuggi.

Merk: Guð, sem er eilífur, óumbreytanlegur, getur þess vegna gjört þá eilíflega sæla, sem elska hann og hlýða honum. Hans makt þar til rènar aldrei, ekki heldur umbreytir hann sínum ásetníngi og loforðum.

§. 3. Guð er almáttugur, og getur gjört allt hvað hann vill, án ómaks eður fyrirhafnar, en hann gjörir ekkert annað en það, sem er vísdómsfullt og gott, því hann vill ekkert nema það einúngis.

Sálm. 115, 3. Vor guð er i himninum, hann gjörir allt hvað honum gott þykir. Sálm. 135, 6.

Jer. 32, 17—19. Ó drottinn, drottinn, sjá, þú gjörðir himin og jörð með þínum mikla krapti; einginn hlutur mistekst fyrir þèr, þú, hinn voldugi guð, mikill í ráðum, og mektugur í athöfnum.

Merk: Vèr megum óhultir treysta á hjálp og verndan þess almáttuga guðs í öllum vorum rèttilegum athöfnum, því hann vantar hvorki veldi nè krapta til að vernda oss. En hann er líka máttugur til að straffa þá að maklegleikum, sem eru honum óhlýðnir.

§. 4. Guð er alvís, og veit allt í einu, bæði það, sem skeð hefir, það sem nú skeður, og það sem á allri ókominni tíð mun ske.

Vorir heimuglegustu þánkar eru ekki huldir fyrir honum.

1. Jóh. 3, 20. Guð þekkir alla hluti.

Sálm. 139, 1—3. Drottinn, þú rannsakar og þekkir mig; þú skynjar mínar hugrenníngar áleingdar; þú sèr gjörla allar mínar athafnir.

Merk: það væri mesta heimska, að ætla sèr að hræsna fyrir guði, sem veit allt, og verður ekki á tálar dreiginn með útvortis yfirhylmíngu. Hann veit hvert heldur er, hvað íllt eða gott vèr hugsum, tölum eða gjörum, jafnvel þó eingin manneskja verði nokkurn tíma áskynja þar um.

§. 5. Guð er alvitur, og hefir ætíð þann bezta tilgáng í sínum ásetníngi, og velur líka jafnan beztu meðöl til að koma honum fram.

Sálm. 104, 24. Drottinn, hversu mörg eru þín verk, þú gjörðir þau öll með vísdómi. Jóh. 12, 13.

Merk: Vèr megum óhult trúa því, að hinn alvitri guð gjörir ekkert, án þess það sè nytsamlegt; og að allt hvað fram við oss kemur, eptir hans vilja, horfir oss til gagns og góða.

§. 6. Guð er allstaðar nálægur, og verkar með sínum krapti allstaðar í öllum hlutum. Hann er hvergi fjarlægur sínum skepnum.

Sálm. 139, 7. 8. Hvert skal eg fara frá þínum anda, drottinn? hvert get eg flúið, svo þú sjáir mig ekki? þó eg færi upp í himininn, þá ertu þar, og þó eg byggi mèr legurúm í undirdjúpinu, þá ertu einnig þar. Jer. 23, 24.

Merk: Hinn guðhræddi má vera með góðu geði í öllum sínum mótgángi, því drottinn yfirgefur hann aldrei, heldur varðveitir hann. En sá óguðhræddi hefir orsök til að skelfast, jafnvel í leynilegustu fylsnum, því hann getur hvergi umflúið drottinn, sinn dómara.

§. 7. Guð er góður, og auðsýnir sínum sköpuðum skepnum svo margar velgjörðir, sem hver þeirra getur í móti tekið, eptir þeirra eðli, lífernis máta, eða útvortis ásigkomulagi.

Sálm. 145, 9. Drottinn er öllum góður, og hann miskunar sig yfir öll sín verk.

Post. gb. 14, 17. Guð hefir ekki látið sjálfan sig vera án vitnisburðar, þar hann veitti oss mikið gott, og gaf oss dögg af himni og frjóvsamar árstíðir.

Merk: Oss byrjar með sannarlegu þakklæti, að viðurkenna eins þær smærri, sem hinar stærri guðs gáfur, og aldrei kvíða fyrir, að hann muni synja oss þess, sem hann sèr að oss er þènanlegt.

§. 8. Guð er miskunsamur, og fús til að veita oss hugsvölun í vorum hörmúngum, og frelsa oss frá þeim á þeirri tíð, og með þeim hætti, sem hann sjer oss hagkvæmast, allt eptir því sem vor velferð útkrefur.

Sálm. 103, 13. Eins og faðirinn er börnunum líknsamur, eins er drottinn miskunsamur þeim, er hann óttast. 2 Kor. 1, 3.

Merk: Í öllum vorum mótgángi megum vèr með von og trausti leita hælis hjá miskunsömum guði, og hvorki reiða oss upp á vorn eigin vísdóm, nè mannanna aðstoð, sem opt kann að bregðast.

§. 9. Guð er heilagur, sem ætíð elskar það góða, en hefir stærstu misþóknun á öllu því sem íllt er.

Sálm. 5, 5. Drottinn, þú ert ekki sá guð, hverjum óguðlegt athæfi líkar; hver, sem er vondur, fær ekki að vera hjá þèr.

1 Pèt. 1, 15. Eins og sá er heilagur, sem yður hefir kallað, svo verið þèr og einnig heilagir í öllu yðar dagfari.

Merk: Vèr eigum með varkárni að forðast allt, sem íllt er, því það er guði á móti. En vèr eigum að ástunda sannan guðs ótta, ef vèr viljum að honum líki við oss, og hann sè oss jafnan náðugur.

§. 10. Guð er rèttlátur, og geingur ríkt eptir, að lifað sè eptir hans boðorðum, hver að öllu leyti horfa til vorrar nytsemdar; þess vegna vill hann umbuna einúngis þeim, sem hlýða honum, en straffa þá, sem honum eru óhlýðnir.

2. Mós. b. 20, 5. 6. Eg er drottinn þinn guð, eg er vandlátur guð, sem læt straff fyrir feðranna ránglæti koma fram á börnunum í þriðja og fjórða lið, — það er að segja — á þeim, sem mig hata. Eg er líka sá, sem auðsýni miskunsemi í þúsund liðu á þeim, sem mig elska, og við þá, sem varðveita mín boðorð.

Róm. 2, 6. Guð mun gjalda einum og sèrhverjum eptir hans verkum.

Merk: a) Það er mikil heimska, að hugsa guð muni sjá í gegnum fíngur við oss, hversu leingi sem vèr áfram höldum í syndunum; því hans rèttlæti útheimtir, að hann straffi það vonda, öðrum til skelfíngar og viðvörunar, svo að manneskjurnar leiðist ekki til lasta og ódyggða af vondra eptirdæmum.

b) Með því guði sýnist ekki þènanlegt, að straffa ætíð eður launa, eptir sèrhvers verðugleikum, í þessu lífi, þá dregur hann opt hverttveggja undan til þess í öðru lífi, hvar bæði sá óguðlegi, og líka

hinn guðhræddi, úttaka, hver upp á sinn máta, sín verkalaun.

§. 11. Guð er sannorður, og dregur oss aldrei á tálar með neinu falsi; hann er trúr, og heitir hvorki nè lofar öðru en því, er hann bæði kann og vill efna.

4. Mós. b. 23, 19. Guð er ekki eins og manneskjan, að hann ljúgi, ekki heldur eins og manneskjunnar barn, að hann sjái sig um hönd.
Sálm. 33, 4. Drottins orð er sannarlegt, og hverju sem hann lofar, það efnir hann vissulega.

Merk: Oss er það nóg til trúarstyrkíngar, að vèr vitum, hvað guð hefir látið oss kunngjöra í sínu orði, og það eigum vèr að halda fyrir satt, án nokkurrar efasemi.

---

# Annar kapítuli.
## Um guðs verk.

---

### I. [redacted] ritníngin kennir [redacted] um sköpunina og skapaða hluti.

§. 1. Guð hefir í upphafi skapað himin og jörð af eingu, alleina með sínu

almætti, til gagns og gleði handa öllum sínum lifandi skepnum.

1. Mós. b. 1, 1. Í öndverðu skapaði guð himin og jörð. Sálm. 115, 15. Es. 40, 26. Sálm. 33, 9. Hann talaði, þá skeði það; hann bauð, þá stóð það þar.

Merk: Guð hefir með sköpuninni svo dásamlega opinberað sitt almætti, speki og gæzku, að sérhver, sem með alvarlegu athygli gefur gætur að heiminum, hlýtur þar af að uppörfast til að heiðra og vegsama guð, og þakka honum.

§. 2. Þegar guð hafði á sex dögum lokið sköpunarverkinu, og gjört jörðina byggilega handa öllum lifandi skepnum, hvíldist hann, eður hætti að skapa, á hinum sjöunda deginum.

2. Mós. b. 20, 11. Á sex dögum gjörði guð himin og jörð, og hafið, og allt sem í þeim er, en hvíldist á hinum sjöunda degi. Sálm. 104.

Merk: Sjöundi dagurinn, sem er sá síðasti í vikunni, var, að guðs boði, heilagur haldinn hjá Gyðíngum, til þakklætis minníngar um heimsins sköpun; þar á mót eigum vèr, kristnir menn, að halda heilagan fyrsta daginn í vikunni, til þakklátrar endurminníngar um Jesú Krists upprisu.

§. 3. Á sjötta degi vikunnar skapaði guð

hinn fyrsta karlmann, er hèt Adam, af moldu, og hina fyrstu konu, sem kallaðist Eva, af mannsins síðu. Bæði þau samteingdi guð í hjúskap til að auka kyn þeirra, og að hvert fyrir sig skyldi stunda annars velferð.

1. Mós. b. 1, 28. Guð skapaði karlmann og kvennmann, blessaði þau og sagði: aukizt þið og margfaldizt, og uppfyllið jörðina.

Post. gb. 17, 26. Drottinn hefir gjört, að allar mannanna kynkvíslir búa á öllum jarðarhnettinum af einum ættstofni.

Merk: það er viðurkvæmilegt, að allir vèr án alls greinarmunar, berum umhyggju hver fyrir öðrum, og elskum hver annan, eins og börn af sama foreldri; þar vèr allir játum, að Adam og Eva hafi verið vorir fyrstu foreldrar.

§. 4. Meðal hinna sýnilegu guðs skepna á jörðunni, er maðurinn hin ypparlegasta. Hann er gæddur með skynsemdarfullri sálu í hentugum líkama handa henni; hann er og svo settur af guði til að ráða yfir öllum öðrum dýrum.

Prèd. 12, 7. Moldin hlýtur að hverfa til jarðarinnar aptur, hvar hún áður var; en andinn til guðs, sem gaf hann.

1. Mós. b. 1, 28. Guð sagði til vorra fyrstu foreldra: Gjörið yður jörðina undirgefna, og drottnið yfir fiskunum í sjónum og fuglunum í loptinu, og yfir öllum dýrum sem hrærast á jörðunni.

Merk: Manneskjurnar hafa það mikla fram yfir dýrin, að þær geta þeinkt, talað og breytt eptir skynsamlegri umþeinkíngu; en með þess meira athygli eigum vèr að gæta vor, svo vèr ekki vanbrúkum þessa stóru yfirburði á móti guðs vilja, sjálfum oss eður öðrum til skaða.

§. 5. Líkami mannsins er svo hagkvæmlega tilbúinn, að bæði getum vèr unnið það, sem nytsamlegt er, með limanna brúkun, og líka notið stórrar ánægju með skilníngarvitunum, hver að eru: sjón, heyrn, ilman, smekkur og tilfinníng.

1. Mós. b. 2, 15. Drottinn guð setti Adam í aldingarðinn Eden, til að yrkja hann og vakta.

Efes. 4, 28. Postulinn Páll útheimtir, að vèr skulum erviða, og vinna oss inn eitthvað þarft, svo vèr höfum nokkuð til að gefa þeim, sem meðþurfa.

Merk: a) Vèr erum allir skapaðir til að erviða; því má einginn eyða sinni tíð í iðjuleysi.

b) Þegar vèr njótum einnar eður annarar ánægju með skilníngarvitunum, þá eigum vèr ætíð vandlega að gæta hófs í hverjum hlut, en forðast alla vanbrúkun, svo guðs gæzka verði oss ekki til fordjörfunar, af sjálfskapar vítum.

§. 6. Sálin er sá mannsins partur, sem þeinkir og ályktar. Hún er ódauðlegur andi, gædd með skynsemi, til að þekkja hvað rètt er eða rángt, og með frjálsræði, til að velja hvert heldur gott eður íllt.

Matt. 10, 28. Jesús sagði: hræðizt ekki þá, sem líkamann deyða, en geta ekki líflátið sálina.

Merk: Þar eð sálin er æðri partur manneskjunnar, eigum vèr að kappkosta, að láta oss fram fara í nytsamlegri þekkíngu og lærdómi, og ætíð girnast hið sanna góða; svo vèr hæflegir verðum til sannarlegrar farsældar, bæði í þessu lífi, og einkanlega í því tilkomanda.

§. 7. Allt hvað guð skapaði, var yfrið gott, og í bezta máta lagað til þess, sem það var ætlað; en einkanlega var manneskjan, svo sem skilníngsfull vera, sköpuð eptir guðs eigin mynd.

1. Mós. b. 1, 31. Guð sá allt, sem hann hafði gjört, og sjá, það var yfrið gott.

1. Mós. b. 1, 26. 27. Guð sagði: vèr viljum gjöra manninn eptir vorri mynd og líkíngu; þá skapaði hann manneskjuna eptir guðs mynd: hann skapaði þau karlmann og konu.

Merk: Ekkert af því vonda, er finnst í heiminum, getur tilreiknazt guði, sem ekki var orsök til þess. Skuldin verður einúngis hjá manneskjunni, sem ekki gætti síns meðfædda sakleysis.

§. 8. Þær fyrstu manneskjur líktust guði í nokkru, og í því tilliti er sagt þær hafi verið skapaðar eptir guðs mynd. Það í voru þær honum líkar, að þær höfðu þekkíngarfullan skilníng á öllu, sem þær meðþurftu til að byrja farsællegt líf; líka höfðu þær í viljanum, lyst og laungun til hins góða, án þess að freistast af nokkri tilhneigíngu til ílls.

Prèd. 7, 29. Salómon segir: Það hefi eg fundið, að það, sem guð hefir gjört manneskjunni, er rètt. Hèr á líka við það, sem postulinn Páll segir, Kól. 3, 10: Að þeir trúuðu hafi íklæðzt nýrri manneskju, sem endurnýast til þekkíngar eptir þess mynd, sem hana hefir skapað. Ef. 4, 24.

Merk: Vèr eigum að ástunda að verða guði líkir að nýu, og keppast þess vegna daglega eptir, að láta

oss fara fram í þekkíngu og ráðvendni, svo vèr verðum að nýum og betri manneskjum.

§. 9. Auk manneskjunnar hefir guð líka skapað aðrar skynsemdarfullar verur, sem hafa æðra eðli, og kallast Einglar. Þeir eru andar, hafa því skynsemi og frjálsræði, en jarðneskar manneskjur geta ekki sèð þá án guðs sèrdeilislegrar tilhlutunar, því þeir hafa eingan jarðneskan líkama.

Sálm. 103, 20. 21. Lofið drottinn, þèr hans einglar, þèr öflugar hetjur, sem framkvæmið hans boð. Lofið drottinn, þèr hans þènarar, sem gjörið hans vilja.

§. 10. a) Nokkrir af einglunum hafa sjálfkrafa fallið frá hlýðni sinni við guð, þeir kallast þess vegna vondir einglar, og líða það straff, sem íllska þeirra hafði til unnið.

2 Pèt. 2, 4. Guð þyrmdi ekki einglunum, sem syndguðu, heldur steypti þeim niður til helvítis, og setti þá í myrkrafjötur, svo að þeir geymist þar til dómsins. Matt. 25, 41. Jóh. 8, 34.

b) Hinir einglarnir hafa staðið stöðugir í hlýðni sinni við guð, og kallast því góð-

ir einglar; þeir hafa yndi sitt af að skoða guðs dýrð, lofa hann og ákalla, og gjöra allt, sem hann skipar þeim.

Hebr. 1, 14. Eru einglarnir ekki þjónustusamir andar, útsendir vegna þeirra, sem öðlast skulu sáluhjálpina? Matt. 18, 10. 28, 2—7. Lúk. 1, 26—28. 2, 9—14.

Merk: Í þriðju grein af faðir vor, verðum vèr minntir á, að gjöra það, sem guð vill, með sömu lyst og ástundun, eins og góðu einglarnir gjöra það í himnum.

---

## II. Hvað ritníngin kennir oss um guðs forsjón, og um viðhald allra skapaðra hluta.

§. 1. Guð viðheldur öllum sköpuðum hlutum með sínu almætti, og lætur þá niðurröðun í náttúrunni halda sèr, sem hann einu sinni hefir sett, því annars mundi hún fara aflaga.

1. Mós. b. 8, 22. Meðan jörðin er við lýði, skal hvorki linna sáð nè uppskera, frost nè hiti, sumar nè vetur, dagur nè nótt.

Sálm. 104, 13. 14. Drottinn minn guð, þú vökvar fjöllin hèr ofan að, og fyllir landið með ávöxtum, sem þú gefur; þú lætur gras-

ið spretta handa fènaðinum, og korn, mönnunum til nota, svo að þú útleiðir brauðið úr jörðunni.

Merk: Vèr megum ætíð reiða oss upp á guð, hvernig sem ástaðt er fyrir oss, því með sínu almætti, speki og gæzku, verndar hann jafnan heiminn; en vèr megum heldur aldrei gleyma því, að vegsama hann og þakka honum.

§. 2. a) Guð ber umhyggju fyrir öllum sínum skepnum, smáum og stórum, veitir þeim öllum allt hvað þær viðþurfa til lífs-uppheldis, gætir þeirra og verndar þær.

Sálm. 145, 15. 16. Allra augu vona til þín, drottinn, og þú gefur þeim þeirra fæðu í hæfilegan tíma; þú upplýkur þinni hendi, og seður allar lifandi skepnur með þinni blessun.

b) Sèr í lagi ber guð umhyggju fyrir manneskjunum, er með skynseminni, og hennar rèttri brúkun, geta orðið njótandi lángtum meiri sælu en skynlausu skepnurnar.

Matt. 6, 26—30. Jesús sagði: Gætið að fuglunum í loptinu, þeir sá hvorki nè uppskera, og ekki safna þeir í kornhlöður, samt fæðir yðar himneski faðir þá; eruð þèr ekki miklu ypparlegri en þeir? — og þar eð guð skrýðir grasið á akrinum, sem stendur í dag,

en á morgun verður kastað í ofn, mundi hann ekki miklu fremur það sama við yður gjöra, þèr lítiltrúaðir? Matt. 5, 45.

Merk: a) Vèr megum ekki misbrúka skynlausar skepnur, eða fara illa með þær, því guð, sem hefir skapað þær og nærir, vill að þeim vegni vel, eins og oss.

b) Vèr eigum ekki að misbrúka guðs gáfur til óhófs, því hann hefir ekki gefið oss þær til annars, en að vèr skyldum með þeim efla vort eigið og annara sannarlegt gagn.

c) Þar að guð hefir gefið oss vora limi og krapta, til þess vèr skyldum brúka þá til nytsamlegrar vinnu, þá vill hann ekki með öðrum hætti bera umhyggju fyrir voru uppheldi, en að vèr sjálfir sèum jafnframt iðnir og atorkusamir, hver í sínu rètta standi og embætti. 1. Mós. b. 3, 19. 2. Tess. 3, 10—12.

d) Það er sannarlegur velgjörníngur af guði, að vèr erum skyldugir að orviða, því þar með styrkist heilsa líkamans, og sálin uppörvast að hugsa um það sem er gott og nytsamlegt, í stað þess að sækjast eptir syndsamlegri gleði.

§. 3. Guð, sem er heimsins drottinn og stjórnari, stýrir með speki og gæzku öllu því, sem við ber í heiminum, svo að bæði gott og illt fá þau endalok, sem honum þykja hagkvæmust.

Matt. 10, 29—31. Jesús sagði: Seljast ekki tveir titlíngar fyrir einn smápeníng? Samt fellur einginn af þeim til jarðar án yðar föðurs vilja; enn fremur, öll yðar höfuðhár eru líka talin; óttizt þess vegna ekki, þèr eruð meira verðir en margir titlíngar.

1. Mós. b. 50, 20. Jósep sagði við bræður sína: þèr ætluðuð að gjöra mèr íllt, en guð ásetti að snúa því til góðs, til að gjöra það, sem nú er fram komið, og halda mörgu fólki við lífið.

Merk: a) Vèr eigum að fela guði á hendur, hvaða árángur verður af voru löglegu erviði, þar eð ekkert skeður án hans vilja eða tillátsemi.

b) Þegar guð leyfir vondum mönnum að gjöra skaða, vegna þess hann vill ekki með makt svipta þá frjálsræði þeirra, megum vèr samt treysta því, að hann í tækan tíma muni snúa því til góðs, annaðhvert til vorrar eigin eður annara nytsemdar.

c) Jafnvel þó það á stundum líti svo út, eins og hinum óguðlegu gángi allt að óskum, en guðhræddir megi líða nauðir og volæði, er guð samt vísdómsfullur og rèttlátur í sinni stjórnun, því hann veit bezt hvað nytsamlegt er, bæði hverjum út af fyrir sig, og líka öllum heiminum yfir höfuð að tala: en í hinu öðru lífi mun hann vissulega straffa sèrhvern, og launa öllum, eptir sem hver hefir til unnið.

§. 4. Sèrhverjum ber að álíta það stand, sem hann er í settur, eins og vissa köllun af guði, til að gjöra þar svo mikið gagn, sem honum eptir fremsta megni, efnum og ásigkomulagi er mögulegt.

1. Sam. 2, 7. Drottinn er sá, sem gjörir fátækan og ríkan; hann er sá, sem niðurlægir og upphefur.

1. Kor. 7, 20. Hver einn standi stöðugur í þeirri stètt, sem hann er til kallaður.

Merk: Hver sem er óánægður með sitt stand, sá ásakar guðs algóðu forsjón, og sýnir í því mikla fávizku.

§. 5. Hvað sem oss mætir í þessu lífi, hvert það er heldur sorg eða gleði, er oss af guði ætlað eptir bezta tilgángi, svo vèr höfum ætíð orsök til að vera ánægðir með hans stjórnun og umráð.

Hebr. 13, 5. 6. Látið yður nægjast með það, sem þèr hafið; því sjálfur drottinn hefir sagt: eg skal ekki svipta minni hendi af þèr og eingan veginn yfirgefa þig; vèr getum því hughraustir sagt: Drottinn er minn hjálpari, eg skal ekki kvíða.

Róm. 8, 28. Vèr vitum, að allir hlutir verða að þèna þeim til góðs, sem guð elska.

Merk: Óviðurkvæmilegt er fyrir oss að falla í víl eður efasemi, þá mótgángur upp á kemur, þar vèr vitum, að guðs forsjón vakir yfir oss, og að neyðin sjálf verður að meðali í guðs hendi til að efla vort sannarlega gagn.

Lærdómurinn um sköpunina og viðhaldið er stuttlega útmálaður í fyrstu grein trúarjátníngarinnar í Fræðunum.

---

# Þriðji kapítuli.

## Um manneskjanna spillíngu af syndinni.

---

§. 1. Reynslan sýnir, að manneskjurnar eru ekki svo góðar, sem þær vera ættu. Allir hafa sína bresti, og hjá öllum hreifir sèr ein eður önnur syndsamleg tilhneigíng, hjá sumum meir, en sumum minna.

Róm. 3, 23. Allir hafa syndgað og hafa skort á þeirri hrósun, sem hjá guði gildir.

1. Jóh. 1, 8. Ef vèr segjum, að vèr höfum ekki synd, þá svíkjum vèr sjálfa oss, og sannleikurinn er ekki í oss.

Merk: Vèr höfum einga orsök til að treysta vorum eigin verðugleika, eður fyrirlíta aðra,

því allir erum vèr ófullkomnir, og sèrhver hefir nóg að ásaka sig fyrir.

§. 2. Sú almenna spillíng manneskjanna er einkanlega þar í fólgin, að þeir brúka ekki skynsemina til rèttrar yfirvegunar, hvað eð kemur þaraf, að syndsamleg girnd til jarðneskra hluta, sem skilníngarvitin fýsir til, hefir feingið svo mikið vald yfir hugskoti þeirra, að þeir sækjast eptir tèðum hlutum, svo sem væru þeir það æðsta góða. Þar af skeður, að manneskjan getur haft vit á því góða, en hefir samt tilhneigíngu til ens vonda.

Mark. 7, 21—23. Jesús sagði: Innan að, frá manneskjunnar hugskoti, útkoma vondar hugsanir, hórdómur, frillulífi, morð, þjófnaður, ágirnd, íllska, svik, lauslæti, öfund, bakmælgi, dramb, hirðuleysi; allt þetta kemur út innan að og saurgar manneskjuna.

Róm. 7, 18. Postulinn Páll játar: eg veit að í mèr — það er, í syndumspilltri náttúru minni — býr ekkert gott.

Merk: Vèr verðum nákvæmlega að gæta vor, svo að vondar girndir uppkveikist ekki hjá oss, en alvarlega kappkosta að niðurkefja

þær, þegar þær taka til að hreifa sèr, svo þær fái ekki yfirhönd, og að vèr hröpum ekki í lesti og ódyggðir, sem draga guðs ónáð eptir sig, bæði í þessu lífi og í hinu tilkomanda.

§. 3. a) Ekki er guði um spillíngu manneskjunnar að kenna, því hann skóp þær fyrstu manneskjur saklausar eptir sinni mynd.

Jak. 1, 13. Einginn segi, nær hann freistast: eg freistast af guði, því guð getur ekki freistast af nokkru íllu, hann sjálfur freistar og einkis.

b) Guð hafði bannað þeim fyrstu manneskjum að eta ávöxtinn af einu tilteknu trè, en þau gjörðu það samt, og fyrir þá sök urðu þau ekki einúngis, svo sem óhlýðug, dauðastraffi undirorpin eins og guð hafði hótað þeim, heldur misstu þau líka þeirra fyrri lyst til ens góða, þar eð óregluleg girnd til jarðneskra hluta fèkk yfirráð yfir skynsemi og vilja þeirra.

1. Mós. b. 2, 16. 17. Guð drottinn bauð manneskjunni og sagði: af öllum trjám í aldingarðinum máttu eta, en af skilníngstrènu góðs

og ílls máttu ekki eta, því nær sem þú etur af því, skaltu vissulega deya.

Merk: Guð reyndi ekki sjálfs síns vegna vora fyrstu foreldra með því, að banna þeim ávöxtinn á trènu, þar hann vissi gjörla fyrir fram, hvert þeir mundu hlýða sèr eður ekki; heldur var þörf á einhverri reynslu vegna sjálfra þeirra, allt eins og vegna sèrhverrar annarar skilníngsfullrar skepnu. Reynsla þessi átti að gefa þeim tækifæri til að brúka þeirra sjálfræði, útvelja hið góða, og hafna því ílla, eptir eigin umþeinkíngu, þeim sjálfum til staðfestíngar í dyggð og ráðvendni.

§. 4. Ritníngin segir oss, að einn af þeim einglum, sem fallnir voru frá hlýðni við guð, og sèr í lagi kallast Djöfull, hafi reynt að steypa vorum fyrstu foreldrum í sömu nauðir sem hann var sjálfur kominn í, og ginnt Evu til að eta af forboðna trènu, en hún lokkaði síðan mann sinn Adam, til sama verks.

1. Mós. b. 3, 1—6. Höggormurinn sagði við konuna: ekki munuð þið deya, því guð veit, að nær sem þið etið af því trè, munu ykkar augu uppljúkast, og þið munuð verða eins og guð í að þekkja gott og íllt; en konan

sá, að trèð var gott að eta af, fagurt á að líta og girnilegt til fróðleiks, svo hún tók af þess ávexti og át, og hún gaf manni sínum þar af, og hann át.

Jóh. 8, 44. Djöfullinn var morðíngi frá upphafi og var ekki stöðugur í sannleikanum, því sannleiki er ekki í honum; þegar hann talar lýgi, talar hann af sínu eigin, því hann er lygari og lýginnar höfundur.

Merk: Hefði guð átt að hindra þá fyrstu foreldra frá að brjóta hans boðorð, þá hefði hann orðið að þvínga þá með almætti sínu, þar eð þeir vildu ekki viljuglega hlýða hans boði og aðvörun. En þá hefðu þeir misst skynsemi sína og frjálsræði, og undir eins orðið að skynlausum skepnum, er ekki hefðu síðan getað tekið á móti þeirri sælu, sem þeim var ætluð, hvað þó ekki var samkvæmt með guðs speki og gæzku.

§. 5. a) Vorir fyrstu foreldrar gátu ekki látið það sakleysi gánga í ættir til afkomenda sinna, sem þeir höfðu sjálfir misst; en síðan sjálfra þeirra eðli var orðið spillt og skemmt, hlaut þar af að fylgja, að niðjar þeirra erfðu þessa spillíngu.

Sálm. 51, 7. Davíð játar: Eg er fæddur með misverknaði, og í syndinni gat mín móðir mig. Jóh. 3, 6.

b) Sökum þess að syndsamleg girnd til jarðneskra hluta fèkk yfirráð hjá vorum fyrstu foreldrum, er hin sama girnd nú orðin kröptug í allra manna sálum; með árafjöldanum fæðir hún af sèr ýmislegar syndir, og dauðinn er það straff, sem guð hefir við lagt, ef þær drýgðar væru.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn, og dauðinn vegna syndarinnar, svo hefir dauðinn sèr til allra manna inn þreyngt, því allir hafa syndgað. Róm. 6, 23.

Merk: a) Eins og það trè, sem er af íllri tegund, ekki getur borið beztu ávexti, eins er þess ekki heldur von, að foreldrar, sem tapað hafa sakleysi sínu, og eru spilltir af vondum girndum, kunni að geta góða, og með öllu saklausa afkomendur, því verkanin verður að líkjast orsökinni. Matt. 7, 16. 18. Jóh. 15, 4.

b) Guð vildi ekki hindra, að sú almenna spillíng, sem af hinum fyrstu mönnum var komin í heiminn, útdreifðist eptir náttúrlegu eðli og rás til allra þeirra afkomenda, því hann hafði frá eilífð fyrirhugað þeim öllum nægilegt lausnarmeðal vegna Krists. Róm. 11, 32. Gal. 3, 22.

§. 6. Hversu stór sem spillíngin var, sem komin er yfir allar manneskjur, hefir guð

þó hagað því svo, að í vorum hjörtum skyldi eptir verða drottnandi eptirlángan til lukku og velgeingni, sem ekki leyfir oss að vera öldúngis hirðulausum um vora eigin velferð.

Ef. 5, 29. Aldrei hefir neinn hatað sinn eigin líkama, heldur fæðir hann og endurnærir.

Merk: a) Sannarleg farsæld hèr í heimi er einúngis innifalin í velgrundaðri sinnisrósemi og ánægju. Hvað sem móti henni stríðir, er ekki vert að sækjast eptir, þar það er miklu meir farsæld vorri til hindrunar en eflíngar.

b) Lesti og ódyggðir, sem án efa munu eptir á afla oss mikils sinnisóróa, eigum vèr af fremsta megni að forðast og af að leggja.

§. 7. Spillíngin hefir samt ekki getað svo mikið aðgjört, að vèr sèum öldúngis tilfinníngarlausir um það, sem rètt er eður rángt í vorum athöfnum; því eptir guðs alvísu ráðstöfun höfum vèr allir samvizku, er lætur oss finna til innvortis ánægju, þegar vèr gjörum það sem rètt er, en þar á mót uppvekur innvortis óánægju og órósemi, þegar vèr tökum oss eitthvað það fyrir hendur, sem ekki er rètt eður leyfilegt.

Róm. 2, 14. 15. þegar heiðíngjarnir, sem ekki hafa lögmálið, gjöra það af náttúrunni, sem lögmálið skipar, þá eru þeir, þótt ekki hafi þeir lögmálið, sjálfum sèr í lögmáls stað; því þeir sýna, að lögmálsins verk eru skrifuð í þeirra hugskoti, með því þeirra samvizka ber þeim vitni, og þeirra þánkar, sem ásaka eða afsaka þá innbyrðis.

Merk: a) Vor samvizka er góð, þegar vèr finnum hjá sjálfum oss, að ekkert verður með rèttu fundið að vorri breytni. þar á móti er vor samvizka vond, þegar vèr finnum, að vèr ekki höfum hegðað oss eins og vera ber.

b) Stærri kvöl kann ekki að hugsast en vond samvizka, sem ofsækir með sínu álasi bæði í lífi og dauða. þess vegna eigum vèr því heldur að kappkosta að lifa guðrækilega, svo vèr getum haldið góðri samvizku.

c) Hjá mörgum sefur samvizkan um stundar sakir, meðan þeir ekki gefa gætur að illverkum sínum, en einhvern tíma mun hún samt vakna; mun þá og uppkoma þess stærri kvíði og ángur í sálunni.

§. 8. a) Manneskjan syndgar, þegar hún verður brotleg í einhverju, sem stríðir á móti guðs boði; þess vegna er það allt synd, sem ekki er samkvæmt guðs vilja.

1. Jóh. 3, 4. Hver sem syndina drýgir, hann gjörir það, sem er móti lögmálinu, því það er synd, sem er móti lögmálinu.

b) Manneskjan drýgir synd með hugrenníngum og girndum, þegar hún hefir ánægju af að hugsa um það, sem guði er á móti, og sækist eptir því.

Matt. 9, 4. Jesús sagði til Faríseanna: því hugsið þèr svo íllt í yðrum hjörtum. Matt. 15, 19. 20.

c) Manneskjan drýgir synd með orðunum, þegar hún talar um eitthvað, sem annaðhvert ekki sambýður þeirri virðíngu, er hún á guði að veita, eða móðgar, ellegar skaðar náúngann.

Matt. 12, 36. Jesús sagði: manneskjurnar eiga að standa reikníng á dómsdegi af sèrhverju óviðurkvæmilegu orði, sem þær hafa talað.

d) Manneskjan drýgir synd með verkunum, þegar hún annaðhvert gjörir eitthvað, sem guð hefir bannað, eður lætur ógjört, það sem hann hefir skipað.

1. Jóh. 3, 6. Hver sem stöðuglega heldur sèr til guðs, drýgir ekki synd; hver sem

syndina drýgir, hefir hvorki sèð guð nè aðhyllzt hann.

Jak. 4, 17. Hver sem kann að gjöra gott, en gjörir það ekki, hann syndgar.

Merk: það er ekki nóg, að vèr forðumst útvortis íll orð og verk, sem gjöra oss jafnvel fyrir mönnunum andstyggilega, heldur eigum vèr einnig að gæta vor við íllum hugrenníngum, sem ekki eru huldar fyrir alvísum guði, er hefir viðbjóð á þeim og mun straffa þær.

§. 9. a) Allar syndir eru að sönnu rángindi í sjálfu sèr, samt eru þær ekki allar jafnstórar, eða sömu refsíngar verðar.

Jóh. 19, 11. Jesús sagði við Pílatus: Sá sem fèkk mig þèr í hendur, hefir meira syndgað en þú.

b) Sannkristin manneskja getur syndgað af breyskleika, annaðhvert af því hún hefir ekki betur vit á, jafnvel þó hún bæði gæti og ætti að hafa haft vit á því; ellegar hún gjörir það í bráðræði, og móti vilja sínum; en strax sem hún verður vör við yfirsjón sína, ángrast hún af henni, og með einlægum ásetníngi að vilja betra sig, biður guð, fyrir Krists sakir, um náð.

Róm. 7, 18. 19. Viljann til þess góða hefi eg að sönnu, en ekki krapt til að framkvæma það; því hið góða, sem eg vil, það gjöri eg ekki, en það vonda, sem eg ekki vil, það gjöri eg.

c) Hinn óguðlegi syndgar af ásetníngi, þótt hann viti betur, og hann hefir yndi af því, án þess hann ángrist af íllsku sinni, eða biðji fyrirgefníngar á henni, og leitist við að betra sig.

Fil. 3, 18. 19. Margir breyta, eins og eg optsinnis hefi sagt yður, og með grátandi tárum segi enn, að þeir eru óvinir krossins Krists, hverra afdrif verða, að þeir tortýnast; þeir, sem hafa magann fyrir sinn guð, þykir sómi að skömmunum og sækjast eptir jarðneskum munum.

d) Hver, sem syndgar af ásetníngi, sýnir þar með, að hann metur guð einkis í hjarta sínu, og lætur ekki ásannast, hversu ósegjanlega gæzkuríkur guð er; þess vegna er það rèttvíst, að hann fái harðara straff en sá, sem ílla breytir, án þess að gjöra það af ásetníngi.

Lúk. 12, 47. 48. Sá þjón, sem veit síns herra vilja, og býr sig ekki til eða breytir

eptir honum, mun straffast hart; en hinn, sem ekki veit þann vilja, og hverjum þó hefir á orðið, hann mun straffast minna.

Merk: það stríðir öldúngis á móti þeirri elsku og virðíngu, sem sannkristin manneskja á að hafa fyrir guði, að gjöra nokkuð af ásettu ráði, sem hún veit að stríðir á móti guðs vilja, ellegar að láta nokkuð af því með ásetníngi ógjört, sem hún er skyldug að gjöra. Hver sem af hjarta virðir og elskar guð, sá forðast með mestu varúð að brjóta vísvitandi á móti nokkru hans boðorði. 1. Mós. b. 39, 9. Róm. 6, 15.

§. 10. a) Manneskjan getur ekki öðlazt neina sannarlega farsæld af syndinni, því hennar ímyndaða kæti hverfur skjótt; en bæði órósemi og blygðan samvizkunnar og guðs ónáð, fylgja eptir henni, er ásamt með steypir manneskjunni, og það stundum strax í þessu lífi, í margs kyns eymd og volæði.

Orðskv. b. 14, 34. Syndin er lands og lýða töpun. 1 Tím. 6, 10. Jak. 4, 1. 2.

b) Í eptirkomanda lífi verða strax kvalir og útilokun frá guðs náð og miskunsemi, viss gjöld og umbun

syndanna, ef vèr höldum án yfirbótar áfram í þeim með geðþekkni, og af ásetníngi.

Róm. 2, 8. 9. Yfir þá, sem eru mótsnúnir og ekki hlýða sannleikanum, en fallast heldur á ránglætið, skal koma reiði og hefnd; hrellíngar og harmkvæli skulu vera yfir allra manna sálum, sem illsku drýgja.

Merk: Mjög hættulegt er, að láta syndanna tillokkanir rótfestast í hjartanu; því auk þess að manneskjan spillir þar með hugarfari sínu og sinnislagi, svo getur sú synd, sem opt er um hönd höfð, orðið fljótt að vana, og vaninn um síðir að forherðíngu, hvar af yfirbótin verður lángtum torveldari.

---

# Fjórði kapítuli.

## Um það, hvernig Jesús Kristur hefir viðrétt manneskjurnar úr þeirra spillingu.

---

§. 1. Guð vildi ekki að syndin, sem í heiminn var komin, skyldi steypa manneskjunum í eilífa töpun, án þess nokkur von væri um frelsi; þess vegna hefir hann af sinni líknarfullu elsku, tilskikkað þeim

endurlausnara, til að frelsa þær frá syndarinnar skaðlegu verkunum, en veita þeim aptur aðgáng til guðs náðar, bæði í þessu lífi og í því tilkomanda.

Jóh. 3, 16. Jesús segir: svo elskaði guð veröldina, að hann gaf í dauðann sinn eingetinn son, til þess að allir þeir sem á hann trúa, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilífa sælu. Róm. 8, 32. Ef. 1, 6. 7.

Merk: a) Endurlausnarinn var ekki sendur til að frelsa syndugar manneskjur frá þeirra líkamlegu nauð, því þeirra sannarlega gagn útheimtir, að guð verður að leyfa að hörmúngar og mótgángur upp á falli fyrir þeim, til að uppvekja hjá þeim laungun eptir betra lífi, og koma þeim til að afneita veraldlegum hégóma. Hebr. 12, 5—11. Jak. 1, 2—4.

b) Eptir speki sinni og elsku sendi guð endurlausnarann til að afmá syndarinnar skelfilegu verkanir, er olla manneskjunum mestu eymdar og báginda; því syndinni fylgir guðs reiði, órósemi samvizkunnar, örvæntíng í dauðanum, ásamt með útilokun frá öllum sóma og gleði í eilífðinni, hvar óguðlegir ekki eiga von nema á kvöl og ángist. 1. Jóh. 3, 4. 5. 2 Kor. 5, 21.

§. 2. Endurlausnarinn er Jesús

Kristur, guðs himneska föðurs eingetinn sonur, sem frá eilífð hefir verið sameinaður með föðurnum í einni og sömu sannarlega guðdómlegri veru, en kom í heiminn á þeim tíma, sem guð hafði áður tiltekið í sínum fyrirheitum.

1. Jóh. 4, 10. 15. Svo var þeirri elsku varið, ekki að vèr elskuðum guð, heldur að hann elskaði oss, og sendi sinn son, til að forlíka fyrir vorar syndir. — Hver sem meðkennir, að Jesús er guðs sonur, honum hjálpar guð staðfastlega, og hann heldur sèr stöðuglega til guðs. Jóh. 3, 17. 18.

1. Mós. b. 22, 18. Drottinn gaf Abraham það loforð: af þínu afkvæmi skulu allar þjóðir á jörðunni blessun hljóta. Gal. 3, 16. 1. Mós. b. 3, 15.

Merk: a) Eptir guðs eigin skipun, var endurlausnarinn kallaður Jesús, sem þýðir frelsari, svo þar með yrði sýnt, að hann ætti að frelsa mannkynið frá þeirri eymd, í hverja syndin hafði steypt því. Matt. 1, 21.

b) Endurlausnarinn kallast Kristur eður Messías, vegna þess að spádómarnir tala um hann, svo sem þann drottins smurða, er vera skyldi herra og konúngur í andlega náðarríkinu, hvert guð ætlaði að láta hann stipta til syndaranna frelsis.

c) Einginn annar en Jesús af Nazaret, getur verið Messías, því öll þau kenniteikn, sem honum eru tillögð í guðs fyrirheitum, eiga fullkomlega heima hjá honum. Jóh. 7, 40. 42. Matt. 26, 63. 64. Jóh. 4, 25. 26. 9, 35. 38. 18, 32—37.

Messías átti, að því leyti sem hann var manneskja, að vera kominn af Abrahams ætt, 1. Mós. b. 22, 18. og Davíðs kynþætti, Es. 11, 1; líka fæðast í Betlehem, Davíðs borg. Mikk. 5, 1.

Messías átti að koma í heiminn, áður en Gyðíngar höfðu öldúngis misst sína eigin valdstjórn, 1. Mós. b. 49, 8—10; áður en seinna musterið í Jerúsalem eyðilagðist, Hagg. 2, 7; og áður en sú tíð væri liðin, sem spámaðurinn Daníel hafði tiltekið. Dan. 9, 24—27.

Messías átti fyrst að líða sára pínu og líflátinn verða, en strax þar eptir upprísa af gröfinni til óforgeingilegs lífs, og með því að útbreiða sinn lærdóm, snúa mörgum þjóðum frá skurðgoða-dýrkun til sannleiksins þekkíngar. Sálm. 22, 1—19. Es. 53, 1—9. Sálm. 16, 5—11. 110, 1—4. Es. 42, 1—9. 53, 10—12. 55, 1—5.

Allt þetta er fram komið einúngis á Jesú frá Nazaret, og getur síðan ekki fram komið við neinn annan, því þau kennimerki, með hverjum þeim tilkomanda Messías var lýst, eru ekki leingur til.

§. 3. **Jesús Kristur** er, að því leyti sem hann er **manneskja**, **kominn í heiminn** á þann hátt, að hann **fæddist af Maríu meyu**. Hann sameinaði þá guðdómlegu náttúru við ena manndómlegu, sem tilbúin var í móðurlífi af heilags anda krapti, með þeim hætti, sem vèr ekki getum skilið, svo að hann er undir eins bæði **guð** og **maður**, og verkar ætíð með báðum sínum náttúrum.

Matt. 1, 20, 21. Eingillinn sagði við Jósep, sem var trúlofaður Maríu: Víla þú ekki fyrir þèr að taka Maríu, þína festarkonu, heim til þín, því hennar fóstur er af heilögum anda, og hún mun son fæða, og hans nafn skaltu kalla Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk af þess syndum. Lúk. 1, 35.

Róm. 9, 6. Kristur er eptir holdinu, eður sinni manndómlegu náttúru, af feðrunum; hann, sem er guð yfir öllu, blessaður að eilífu.

Merk: Allt það, sem Jesús Kristur útverkaði handa oss, gjörði hann ekki sem **einúngis manneskja**, heldur sem **guð og maður undir eins**. Þessvegna höfum vèr líka sterkustu fullvissu um, að sú endurlausn, sem hann hefir oss afrekað, sè fullgild.

§. 4. a) **Jesús Kristur** var sannarleg

manneskja með sálu og líkama eins og vèr, en þó án syndar, og fullkomlega heilagur í öllu sínu framferði.

Jóh. 8, 46. Jesús spurði óvini sína: Hver af yður getur sannað upp á mig nokkra synd? 1 Pèt. 2, 22. Hebr. 7, 26.

b) Jesús sýndi í öllu sínu líferni hlýðni við öll guðs boðorð, bæði til að afreka oss betra rèttlæti, og líka til að eptirláta oss hið bezta eptirdæmi, hverju vèr fylgja skyldum.

Róm. 5, 19. Eins og af þess eina manns (Adams) óhlýðni eru þeir mörgu syndugir orðnir, eins munu líka þeir mörgu af hins eina (Jesú Krists) hlýðni, verða rèttlættir.

1 Pèt. 2, 21. Kristur hefir oss eptirdæmi gefið, til þess vèr skyldum feta í hans fótspor. Matt. 11, 29. Fil. 2, 5.

Merk: a) Eins og Jesú Krists eptirbreytendur, eigum vèr að hans dæmi, með alvarlegri ástundun auðsýna, að vèr sèum ánægðir með það, sem guð vill vera láta, Matt. 26, 39. Líka hafa eptirlaungun og kapp á að gjöra það, [redacted] honum er þóknanlegt. Jóh. 4, 34.

b) Vèr eigum eptir Jesú dæmi, að láta ásannast í verkunum, að vèr elskum alla menn, með því að kenna í brjósti um þá aumu, og hjálpa

þeim eptir efnum, Lúk. 7, 11—17. Matt. 9, 35. 36. Líka fúslega fyrirgefa vorum mótstöðumönnum, Lúk. 23, 34, og vera reiðubúnir til að þèna þeim í öllu. Jóh. 13, 1—20.

e) Vèr eigum að keppast eptir að líkjast Jesú í þolinmæði, 1 Pèt. 1, 23. Matt. 26, 47—54. Lúk. 22, 61—68; einnig í því að vera ánægðir og afneita sjálfum oss, vegna sannleikans. Matt. 8, 20.

§. 5. a) Þegar Jesús var þrjátíu ára gamall, lèt hann skíra sig í ánni Jórdan, og var þá af himnum með dýrðlegum hætti kunngjört, að hann væri guðs sonur.

Matt. 3, 16. 17. Þegar Jesús var skírður, stè hann jafnskjótt upp úr vatninu, og sjá, himnarnir lukust upp yfir honum, og Jóhannes sá guðs anda ofan stíga og yfir hann koma, og sjá, röddin af himni sagði: þessi er sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknun.

b) Jesús var strax eptir skírnina á eyðimörku reyndur í fjörutíu daga með margslags hætti, svo að hann með sínu stöðuglyndi gæfi oss dæmi til að breyta eptir.

Mark. 1, 12. 13. Andinn (guðs andi) færði hann jafnskjótt út á eyðimörkina, og Jesús var þar í fjörutíu daga, og varð freistaður af andskotanum. Matt. 4, 1—11.

c) Eptir að Jesús var skírður, og hafði afstaðið freistínguna, ferðaðist hann um kríng meðal Gyðínga á fjórða ár, og kenndi þeim eins og spámaður af himnum sendur, guðs ráð og vilja um syndaranna frelsun og sáluhjálp.

Mark. 1, 14. 15. Jesús prèdikaði lærdóminn um guðs ríki og sagði: tíminn er kominn, og guðs ríki nálægist, sjáið að yður og trúið evangelíó! Matt. 4, 23.

d) Meðan Jesús gekk í kríng og kenndi, staðfesti hann opt kenníngu sína með miklum og gæzkuríkum kraptaverkum, sem augljóslega sýndu, að hann var af guði sendur.

Matt. 11, 4. 5. Jesús sagði við lærisveina Jóhannesar skírara: farið og kunngjörið Jóhannesi það sem þèr heyrið og sjáið: blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, dauðir upprísa, og voluðum verður evangelíum boðað. Post. gb. 10, 37. 38.

Merk: a) Með Jesú Krists dýrmæta lærdómi er hvað af hverju afmáð og upprætt sú viðurstyggilega hjátrú og afguðadýrkan, sem áður drottnaði í veröldinni. 1 Kor. 8, 4 — 6.

b) Með Jesú lærdómi höfum vèr feingið rètta þekkíngu á guði og hans vilja í því, sem við-

kemur syndaranna sáluhjálp. Jóh. 14, 5—7. 17, 3. 6. 8, 14. 17.

c) Jesús hefir kennt oss það, sem vèr annars værum ekki fullvissir um, nefnil., að annað líf sè til eptir þetta, og að guðhræddir komi eptir dauðann í eilífa sælu. Jóh. 3, 14. 18. 5, 21—29. 1 Pèt. 1, 3—5. 2 Tím. 1, 8—10.

d) Jesú lærdómur er oss bezti leiðarvísir til dyggðafulls lífernis. Matt. 5, 6. 7. 13. 15. 18. 20. 22. 25. Lúk. 10, 16. 18. Jóh. 13, 14—16.

e) Hver sem með einlægu hjartaþeli vill meðtaka Jesú lærdóm og fylgja' honum, mun sannarlega komast að raun um, að í honum er guðdómlegur kraptur til að betra hjartað, hugga samvizkuna, og staðfesta vonina um eilífa sælu. Þar með styrkist líka í kröptugasta máta vor fullvissa um, að þessi lærdómur sè föðursins orð, sem hann lèt soninn opinbera mannkyninu, og að sá lærdómur sè þess vegna í sannleika guðdómlegur. Jóh. 7, 16. 17. 8, 31—36. 12, 44—50. 14, 8—10.

§. 6. a) Meðan Jesús kenndi á Gyðíngalandi, var hann undirorpinn margs konar ofsóknum, þar eð höfðíngjar Gyðínganna, fyrir öfundar sakir yfir því hvað mikið honum tókst við almúgann, og af hatri

við Jesúm, af því hann vildi ekki fegra vonzku þeirra, reyndu til, bæði með völum og ofríki, að taka hann af lífi.

Lúk. 19, 47. 48. Hann kenndi daglega í musterinu, en yppurstu prestar og skriptlærðir og höfðíngjar lýðsins sóktu eptir að fyrirkoma honum; þó fundu þeir ekkert, er þeir gætu gjört, því allt fólkið hnè að honum og hlýddi honum. Matt. 12, 14. 22, 15—21. 27, 18. Lúk. 20, 20.

b) Jesú eiginn lærisveinn, svikarinn Júdas, varð um síðir keyptur til að selja hann höfðíngjunum í hendur, sem þá dæmdu hann, án allra saka, til dauða, og feingu hann hinum heiðna landsdómara Pontsíus Pílatus. þessi Pílatus óttaðist reiði keisarans, hverri þeir hótuðu honum, og lèt, móti vilja sínum, húðstrýkja Jesúm, þyrnikrýna, hæða og negla eins og íllvirkja á krossinn, hvar hann uppgaf sinn anda.

Matt. 20, 18. 19. Jesús sagði fyrir fram við sína lærisveina: sjá, vèr förum nú upp til Jerúsalem, og mannsins sonur mun seljast prestahöfðíngjum og skriptlærðum í hendur, og þeir munu dæma hann til dauða, og fá hann heiðíngjum til að láta spotta hann, húð-

strýkja og krossfesta. Matt. 16, 21—23. 17, 22. 23. Lúk. 18, 31—34. Matt. 26, 14—16. Mark. 14, 43—46. Jóh. 13, 21—30. 18, 1—9.

Lúk. 23, 46. Loksins kallaði Jesús á krossinum með hárri raustu, og sagði: Faðir, í þínar hendur fel eg minn anda; og í því hann sagði það, uppgaf hann sinn anda. Jóh. 19, 33—37.

c) Jesús varð ekki einúngis að þola sára pínu á líkamanum, heldur leið hann líka á sálunni beiska kvöl og ángist, vegna mannanna synda.

Matt. 26, 37—39. Þegar Jesús var kominn í grasgarðinn, tók hann ákaflega að hryggjast, segjandi: mín sál er hrygg allt til dauðans. Þar eptir gekk hann leingra fram, fèll niður á sína ásjónu, bað og sagði: minn faðir, ef það er mögulegt, þá líði þessi kaleikur frá mèr; þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt. Matt. 27, 46. Lúk. 22, 41—44.

Merk: a) Jesús sýndi með hugprýði sinni, að hann væri ekki hræddur fyrir dauðanum, þegar hann gekk á móti óvinunum, sem voru að leita að honum; hann vissi líka, að hinir himnesku andar mundu veita sèr lið, ef hann vildi slíta sig úr höndum óvina sinna; og þar þeir allir duttu til jarðar, þegar hann talaði,

sýndi hann, hvað hægt sèr hefði verið að sleppa frá þeim, ef hann hefði viljað. Matt. 26, 53. Jóh. 18, 4-6.

b) það var ekki að undra, þó Jesú, eins og manneskju, blöskraði að hugsa til þeirrar ógnarlegu pínu, er fyrir honum lá; en laungu áður vissi hann, hvað yfir sig mundi koma, var samt ætíð óhræddur og reiðubúinn til að taka það allt saman, mannanna vegna, upp á sig eptir síns föðurs vilja. þar af er auðráðið, að hans mikla sálar-ángist hefir einkanlega komið af því, að hann setti sèr fyrir sjónir allra syndugra manna misbrot, svo viðbjóðsleg sem þau eru, og sá, að öll þau veru sèr nú tilreiknuð. Es. 53, 6—12. Hebr. 5, 7—9.

§. 7. a) Jesús var öldúngis saklaus, og varð að líða, án þess hann í nokkru hefði misbrotið eða syndgað.

Lúk. 23, 4. Pílatus sagði við kennimannahöfðíngjana og fólkið: eg finn einga sök hjá þessum manni. Matt. 27, 4. 18. 19, 23. 24.

b) Jesús gekk með fúsum vilja undir pínuna, og af elsku og meðaumkun yfir oss syndurum, eptir síns himneska föðurs ráði og vilja, þar vèr annars hefðum eilíflega tortýnzt vegna vorra synda.

Fil. 2, 6—8. Þó að Jesús Kristur væri í

guðs mynd, fór hann samt ekki með það, eins og það væri herfáng, að hann var líkur guði, heldur lítillækkaði hann sjálfan sig, tók á sig þræls mynd, og varð hlýðugur allt til dauða, já, allt til dauða á krossinum. Jóh. 10, 11. 18. Sálm. 40, 6—9.

c) Jesús leið pínuna í allra syndugra manna stað og fyrir oss alla, svo hann gæti friðþægt fyrir vor mörgu afbrot, með að þola það straff, sem vèr allir höfðum til unnið; með þvílíkum hætti gat guð fyrirgefið oss syndirnar, án þess að gjöra móti rèttdæmi sínu, eða skerða sitt lögmál, ellegar að veikja sitt herradæmi.

Matt. 20, 28. Jesús segir: Mannsins sonur er ekki kominn til að láta sèr þjóna, heldur að hann þjóni sjálfur og útgefi sitt líf til lausnargjalds fyrir marga. 1 Tím. 2, 5. 6. Jóh. 6, 51. Róm. 5, 7. 8.

Matt. 26, 28. Þegar að því var komið, að Jesús geingi til dauðans, sagði hann: mitt blóð úthellist fyrir marga til syndanna fyrirgefníngar. Ef. 1, 7. 1 Kor. 15, 3. Es. 53, 4—12. Hebr. 10, 1—14.

Ef. 5, 2. Kristur elskaði oss og gaf sig sjálfan út fyrir oss til fórnfæríngar og slátr-

unar offurs, svo guði væri það þóknanlegt. Hebr. 10, 1—22. 2 Kor. 5, 15. 21.

Merk: a) Á gamla testamentisins tíðum varð ypparsti prestur Gyðínganna, eptir guðs skipun, á hinni stóru friðþægíngar hátíð, að bera offur inn í helgidóminn, til forlíkunar fyrir fólksins syndir. 3. Mós. b. 16, 1—28. En þetta offur átti að fyrirmynda friðþægjandi pínu og dauða endurlausnarans, er koma skyldi Gyðíngum til aðvörunar og endurminníngar um það straff, er syndin hafði til unnið. Hebr. 10, 1—4.

b) þegar Jesús fórnfærði sèr sjálfum til friðþægíngar fyrir heimsinssyndir, sýndi hann, að hann væri sá rètti æðsti prestur, hvern guð hafði tilsett, og hann frambar þá forlíkunar fórn, sem einsömul nægir til eilífrar friðþægíngar fyrir alla. Hebr. 9, 11. 14.

c) Gamla testamentisins fórnfæríngar aftókust öldúngis, þegar Jesús Kristur offraði sjálfum sèr; en öll hjátrúarfull friðþægíngar meðöl, sem mennirnir höfðu sjálfir uppfundið, og sem ætíð höfðu verið kraptalaus og einkisverð, féllu þá af sjálfum sèr um koll og urðu að eingu.

d) Vèr eigum að leita náðar hjá guði, eingöngis vegna Jesú Krists, sem allt í einu hefir fullnægju gjört fyrir alla menn; og með sinni pínu og dauða

opnað öllum oss aðgáng til að öðlast fyrirgefníngu syndanna, þegar vèr snúum oss af hjarta og trúum á hann. Hebr. 4, 14—16. 7, 26. 27. 9, 24—28. 10, 19—31.

§. 8. a) Jesús Kristur tók sitt líf aptur á þriðja degi eptir sinn dauða, og uppreis úr gröfinni, eins og hann hafði sjálfur áður fyrirsagt; þar eptir var hann fjörutíu daga á jörðunni hjá vinum sínum og lærisveinum, hverra trú hann staðfesti með kenníngum og áminníngum.

Post. gb. 1, 3—9. Eptir að Jesús hafði liðið pínuna, tèði hann sjálfan sig postulunum lifandi, með mörgum augljósum sannfæríngum, og lèt þá sjá sig um fjörutíu daga, og talaði fyrir þeim um þá hluti, sem heyrðu til guðs ríki. Post. gb. 3, 13—15. Matt. 16. 21. 17, 22—23. 20, 17—19. 27, 63.

1 Kor. 15, 3—7. Kristur, sem dó vegna vorra synda, eptir ritníngunum, og varð grafinn, hann er upp aptur risinn á þriðja degi, eptir ritníngunum, og er sèður af Kefa og síðan af þeim tólf; því næst var hann sèður af meir en fimm hundruðum bræðra í einu, af hverjum flestir voru á lífi, þegar postulinn Páll skrifaði þetta. Matt. 28, 1—20. Mark. 16,

1—16. Lúk. 24, 1—49. Jóh. 20, 1—31. 21, 1—25.

b) Eptir að þeir fjörutíu dagar voru liðnir, var sá upprisni Jesús ekki leingur sýnilega nálægur á jörðunni, heldur fór hann upp til himna, að ásjáandi lærisveinunum, eptir það hann hafði blessað þá, og gefið þeim makt og myndugleika til að útbreiða sinn lærdóm, meðal allra þjóða.

Lúk. 24, 50—52. Þegar Jesús hafði lokið tali sínu við lærisveinana, fór hann með þá til Betaníu, upplypti sínum höndum og blessaði þá; en það skeði, í því hann var að blessa þá, að hann skildist frá þeim og varð uppnuminn í himininn; en þeir tilbáðu hann og snèru aptur til Jerúsalem með miklum fögnuði. Matt. 28, 18—20. Mark. 16, 19. Post. gb. 1, 9—11. Ef. 4, 8.

c) Þegar Jesús var til himins farinn, settist hann til hægri handar föðurnum, hvað eð þýðir: að hann tók til að stjórna heiminum með sínum himneska föður; svo að allar skynsemdarfullar skepnur eiga að játa, að hann sè þeirra herra, og eiga að tilbiðja hann.

Fil. 2, 9—11. Guð hefir hátt upphafið

hann og gefið honum þá tign, sem er yfir öllum tignum, svo að fyrir Jesú tign skulu öll knè beygja sig, þeirra sem á himnum og á jörðu og undir jörðunni eru, og allar túngur skulu játa, að Jesús Kristur sè drottinn, guði föður til æru. Ef. 1, 20—22.

d) Einkum er Jesús Kristur, að því leyti sem hann er endurlausnari, síns safnaðar andlegur konúngur og drottinn, þar eð hann ber umhyggju fyrir, að ætíð sèu þeir á jörðunni, sem játa hans dýrð, og að vantrúin ekki geti með vèlum eða ofríki eyðt þeim; hann hagar því líka svo, að hans lærdómur útbreiðist meðal manneskjanna, þar sem hann sèr að hann fær framgáng til sannrar nytsemi.

Jóh. 18, 36. 37. Jesús játaði fyrir Pílatus: mitt ríki er ekki af þessum heimi, og samt er eg konúngur; en þar til er eg fæddur, og þar til er eg í heiminn kominn, að eg skuli bera vitni um sannleikann. Hver sem elskar sannleikann, sá heyrir mína rödd. Lúk. 1, 31—33. 2, 11. 2 Sam. 7, 12. Sálm. 45, 7. 110, 1—4. Es. 53, 11. 12.

Post. gb. 5, 31. Guð hefir upphafið hann til sinnar hægri handar, til þess hann sè leið-

togi og lausnari, að veita Ísrael apturhvarf og syndanna fyrirgefníngu. Matt. 16, 17. 18.

e) Jesús er vor talsmaður hjá sínum himneska föður, og biður fyrir oss, að sín endurlausn megi koma oss til gagns og nota, svo vèr ekki fyrirförumst vegna vorra synda, heldur fáum náð til apturhvarfs, trúar og helgunar, og getum öðlazt þá sáluhjálp, sem hann útvegaði oss.

1. Jóh. 2, 1. 2. Vèr höfum talsmann hjá föðurnum, Jesúm Krist þann rèttláta, hver að er forlíkan fyrir vorar syndir, þó ekki einúngis fyrir vorar syndir, heldur og líka fyrir allrar veraldarinnar (syndir).

Hebr. 7, 25. Hann getur gjört þá ætíð sáluhólpna, sem hann lèt koma til guðs, því hann lifir æfinlega til að biðja fyrir þeim. Róm. 8, 34.

Merk: a) Með sinni upprisu og himnaför hefir Jesús sannað, svo ekkert verður á móti haft, að hann er sendur af guði, og er í sannleika guðs sonur, eins og hann sagðist vera. Matt. 12, 38 — 40. Róm. 1, 4.

b) Þar eð Jesús er upprisinn frá dauðum og uppstíginn til himna, höfum vèr nú mestu fullvissu um, að guð hefir álitið hans friðþægíngu fullgilda heiminum til endurlausnar; líka og,

að eptir þetta muni koma betra líf, og að vorir líkamir muni ekki æfinlega verða að eingu, heldur — þegar þar að kemur — upprísa úr duptinu til óforgeingilegs lífs. Róm. 4, 25. 1 Kor. 15, 12—34.

e) Ef vèr viljum hafa huggun af því, að vèr vitum, að Jesús Kristur er vor andlegur konúngur og herra, þá eigum vèr, eins og hollir og dyggir þegnar, að heiðra og elska hann, og líka hlýða hans boðum; því þeir, sem öðruvísi lifa, mega álítast eins og upphlaupsmenn í hans ríki, og vænta þess, að óhlýðni þeirra verði ströffuð eptir maklegleikum. Matt. 7, 21—23.

Lærdómurinn um Jesúm Krist og hans friðþægíngu, er í stuttu máli útskýrður í annari grein trúarjátníngarinnar í Fræðunum.

---

# Fimti kapítuli.

## Um apturhvarf og trú.

---

§. 1. Jesús Kristur hefir ekki með sinni endurlausn gefið oss leyfi til að syndga; miklu heldur hefir hann skuldbundið oss til að forðast það illa, og kappkosta af fremsta megni að láta oss fram fara í góðu.

Tít. 2, 11—14. Guðs náð, sem öllum mönnum er heilsusamleg, hefir birzt, og kennir oss að afneita óguðlegu athæfi og veraldlegum girndum, en lifa sparlega, rèttvíslega og guðrækilega í heimi þessum, þar vèr lifum í von um sælu og dýrðlega auglýsíngu hins mikla guðs og vors endurlausnara Jesú Krists, sem sjálfan sig gaf í dauðann fyrir oss, til þess hann endurleysti oss frá öllu ránglæti, og hreinsaði oss, svo vèr sèum hans ágætt fólk, kostgæfið til góðra verka. Gal. 2, 17. 2 Kor. 5, 14, 15.

Merk: Hver sem rèttilega þekkir Jesú Krists endurlausn, sá uppörfast þar af til þess meiri viðbjóðs á syndinni; því þegar vèr athugum, hver Jesús Kristur var, og hvað mikið hann varð að líða vegna vorra synda, þá er eins og afmálað sè fyrir vorum augum, hversu andstyggileg syndin sè, og sú tíð muni koma, að vèr verðum fyrir þúngu straffi, ef vèr höldum áfram og hættum ekki að syndga, þó vèr vitum betur.

§. 2. Sèrhver, sem vegna Krists girnist að fá aðgáng til guðs náðar og eilífa sáluhjálp, á með sönnu apturhvarfi að láta af syndunum, og með einlægri trú að meðtaka Jesúm Krist, guðs son, fyrir

sinn endurlausnara, sinn lærimeistara og sinn drottinn.

Lúk. 24, 47. Kristur skipaði, að í sínu umboði skyldi prèdikast öllu fólki apturhvarf og syndanna fyrirgefníng. Post. gb. 20, 21.

Jóh. 3, 36. Hver sem trúir á soninn, hefir eilíft líf, en hver sem ekki trúir á soninn, skal ekki sjá lífið, því guðs reiði varir yfir honum. Post. gb. 10, 43. Hebr. 5, 9.

Merk: Sannarlegt ángur og tregi fyrir syndirnar verður að gánga á undan, þegar trúin á Krist á að vera fölskvalaus. Því getur heldur einginn huggað sig við Jesú Krists friðþægíngu, nema sá, sem lætur af íllu, og kappkostar að fara dagvaxandi í því góða. Post. gb. 2, 37—47. 3, 17—26.

§. 3. Til sannarlegs apturhvarfs útheimtist, að vèr með einlægri iðrun könnumst við vorar ávirðíngar, biðjum guð auðmjúklega fyrirgefníngar á þeim, og alvarlega einsetjum oss að betra meir og meir vort líferni.

2 Kor. 7, 10. Sú hryggð, sem er eptir guði, verkar apturhvarf til sáluhjálpar, hvers eingan iðrar. Lúk. 15, 21. 18, 13.

Post. gb. 3, 19. Takið því sinnaskipti, og

snúizt, svo yðar syndir verði afmáðar. Sálm. 51, 3—21.

Merk: a) Manneskjan er optast fúsari á að afsaka en játa sínar ávirðíngar; þess vegna mundi hún ekki heldur alvarlega iðrast syndanna, ef samvizkan kæmist ekki endur og sinnum við af guðs orða kröptugum áminníngum með samverkun heilags anda; en það stendur í sjálfra vor valdi, hvert vèr eptir á viljum færa oss slíkar aðvaranir í nyt og til frekari umþeinkíngar, ellegar útrýma þeim úr hjartanu, og standa þannig á móti guðs náð, hvar af vèr meir og meir forherðumst.

b) Manneskjan getur haft ángur af syndunum vegna hræðslu fyrir þeirra straffi; en einkanlega eigum vèr að knýast til ángurs fyrir syndirnar, af blygðun vegna vors vanþakklætis við hinn góða og gæzkuríka guð, sem ekki einasta elur oss og viðheldur af einskærri náð, heldur og sèr í lagi hefir látið kunngjöra oss í sínu heilaga orði þá miklu sælu, sem Kristur hefir oss útvegað, og þar að auki ekki heimtar annað af oss en það, sem augljóslega horfir til vors sanna gagns, og til að afvenda vorri eigin fortöpun.

c) Þegar ángrið vegna vorra synda, er svo einlægt, að vèr af alvöru forðumst það ílla, sem vèr drýgt höfum, annaðhvert með þaunkum, orð-

um eða verkum, þá er oss ekkert takmark sett, hvað leingi það skuli vara, eða hvað mikið það skuli vera; guð lítur einúngis eptir, hvert vort ángur sè einlægt ellegar ekki.

§. 4. Sannarleg trú á Jesúm Krist til sáluhjálpar, er innifalin í því, að vèr höfum það traust og huggunarathvarf til Jesú Krists vors endurlausnara, að þar eð hann með sinni pínu og dauða friðþægði fyrir oss, muni guð fyrirgefa oss vorar syndir, svo framarlega sem vèr iðrumst þeirra af öllu hjarta, og einsetjum oss að syndga ekki framvegis viljandi, heldur laga vorn lifnað eptir Jesú Krists heilaga lærdómi, og hlýða honum, sem vorum rèttum herra.

Ef. 3, 12. Vegna Jesú Krists vors drottins, höfum vèr djörfúng og aðgáng til guðs, með trausti af trúnni á hann. Jóh. 6, 40.

Róm. 8, 33. 34. Hver vill ásaka guðs útvalda? Guð er sá, sem rèttlætir. Hver vill fordæma? Kristur er sá, sem dáinn er, já miklu meira, sem líka er upprisinn, situr við guðs hægri hönd og biður fyrir oss.

Merk: a) Það heyrir til trúarinnar á Jesúm, að vèr

sèum vissir um, að hann er í heiminn kominn til að uppfræða og endurleysa syndugar manneskjur; þó er þetta ekki nóg til sannrar trúar, því sá getur líka verið sannfærður um þetta, sem með sínu líferni afneitar honum í því að hlýða ekki hans boðorðum. Matt. 7, 21—23.

b) Vèr verðum að finna með sjálfum oss, hversu mjög vèr þurfum guðs náðar við, ef vèr viljum meta Krists endurlausn, eins og vert er; því annars væri vor trú ekkert nema köld játníng með vörunum; þess vegna er einúngis sanna trú að finna hjá þeim iðrandi, sem þekkja, hvað andstyggileg syndin er, og hafa innilega laungun eptir guðs náð vegna Krists. Matt. 9, 12. 13.

c) Trúin getur verið veik, meðan hugskotið finnur ekki neina upplífgandi huggun af að tileinka sèr Jesú Krists friðþægíngu, eður þá það stundum ángrast af hræðslu og efasemi; en þvílík trú er eingu að síður sönn og guði þóknanleg, þegar hún auðsýnir sig með sannarlegri laungun eptir guðs náð vegna Krists, og kappkostar af fremsta megni að gjöra það, sem guð vill. Mark. 9, 23.

d) Sú trú er dauð og ávaxtarlaus, sem ekki betrar hugarfarið, og ekki auðsýnir sinn krapt í guðrækilegu líferni.

Sönn og lifandi trú á að sýna sig kröptuga og verkandi í dyggðafullu líferni. Jak. 2, 14—20.

§. 5. a) Vèr getum ekki af eigin kröptum snúið oss og trúað, þar eð syndin hefir veikt oss; samt megum vèr ekki forsóma að leggja allt kapp á vora sálar-betrun.

Róm. 8, 7. Að stunda það, sem spillt náttúra vill, er fjandskapur í gegn guði, þar það stríðir móti hans vilja — því hún hlýðir ekki guðs lögmáli og getur heldur ekki gjört það. 1 Kor. 2, 14.

b) Heilagur andi er ætíð reiðubúinn til að efla vora betrun, og láta oss fram fara í því góða með guðs orði, sem hann hefir sjálfur inngefið þeim heilögu skrifurum.

1 Kor. 6, 11. Postulinn Páll ber Korintumönnum á brýn, að nokkrir meðal þeirra hafi verið lastafullir, en nú — segir hann — eruð þèr þvegnir, þèr eruð helgaðir, þèr eruð rèttlættir í nafni drottins vors Jesú, og af vors guðs anda. Fil. 2, 13. Ef. 3, 16.

Hebr. 13, 21. Friðarins guð tilbúi yður til allra góðra verka, til að gjöra hans vilja, og verki það með yður, sem honum er sjálfum þóknanlegt fyrir Jesúm Krist.

c) Af rèttri brúkun guðs orða fáum vèr rètta þekkíngu á guðs vilja, og

öðlumst krapt til að laga vorn lifnað eptir þeim, ef vèr ekki sjálfir stöndum á móti náð þess heilaga anda, sem í hugskotinu verkar með guðs orði, og uppvekur í samvizkunni þær áminníngar, sem vèr ekki megum niðurkefja.

2 Tím. 3, 15—17. Þú kannt heilaga ritníngu, sem getur uppfrætt þig til sáluhjálpar með trúarlærdóminum um Jesúm Krist. Öll heilög ritníng er innblásin af guði, og nytsamleg til lærdóms, til sannfæríngar, til leiðrèttíngar, til uppfræðíngar í rèttlætinu, svo að guðs maður sè algjör og til alls góðs verks hæfilegur.

Merk: Til að hafa guðs orð rèttilega um hönd útheimtist, að vèr heyrum það og lesum með gaumgæfni og einlægum ásetníngi til að læra það, oss til betrunar og sáluhjálpar. Þegar vèr ekki þannig brúkum guðs orð, fær heilags anda náð ekkert verkað í sálunni; þar eð guð, sem hefir gefið oss fullt vit og frjálsræði, hvorki vill nè getur þvíngað oss til góðs með þeirri makt, sem vèr ekki getum móti staðið.

§. 6. Umvendt og rètttrúandi kristin manneskja getur, eptir því sem guð hefir í sínu orði lofað, verið sannarlega full-

viss um, að hún er hjá guði, vegna Krists, rèttlát orðin, og að hennar fyrri syndir ekki muni tilreiknast henni, heldur skuli straffið fyrir þær, vera henni öldúngis eptirgefið, þar eð guð, vegna Krists, tileinkar henni, eins og hlýðnu barni og trúum þènara, aptur á mót sína náð og blessun.

Róm. 3, 24. 25. Vèr verðum rèttlættir án verðskuldunar af guðs náð, með þeirri endurlausn, sem Jesús Kristur hefir afrekað, hvern guð tilsetti, að hann skyldi vera sá náðarstóll, hvar leita ætti fyrirgefníngar á syndunum fyrir trúna á hans blóð, eður á hans pínu og dauða.

2 Kor. 5, 21. Þann, sem ekki vissi af synd, hefir guð gjört að synd fyrir oss — eður í vorn stað látið fara með hann eins og sekan syndara — svo að vèr hans vegna yrðum rèttlættir fyrir guði. Róm. 8, 1—4.

Merk: Í heilagri ritníngu brúkast ýmislegir talshættir, til að sýna hvernig til skuli gánga hjá þeirri syndugu manneskju, sem betrast á, af heilags anda náðarverkunum.

a) Ritníngin talar um guðs köllun til mannanna, sem er í því innifalin, að hann í sínu orði gefur þeim tilefni til að girnast þá endurlausn, sem Kristur hefir útvegað, og þar að auk leitast við með öðrum hætti,

svo sem með þjáníngum og velgjörníngum, að uppvekja þá til að þeinkja um þeirra andlegt ásigkomulag. Matt. 9, 13. 11, 28. 1 Tess. 2, 12. Sálm. 119, 17. Róm. 2, 4.

b) Ritníngin talar um upplýsíngu, og vill þar með láta skiljast, að heilagur andi uppfræði vorn skilníng með orðinu, svo vèr fáum sanna þekkíngu um guðs ráð og vilja, er við víkur syndugra manna betrun og endurlausn. Ef. 1, 18. Post. gb. 26, 17. 18.

c) Með orðinu endurfæðíng, gefur ritníngin til kynna það sælufulla ástand, sem kristin manneskja kemst í, þegar hún með sannri iðrun lætur af íllu, og með rèttri trú á Krist fær lyst og laungun til góðs, eða verður að annari og betri manneskju, því þar með er eins og hún fæðist að nýu, þar eð hennar sinnislag og hugarfar snýst frá íllu til góðs, eptir guðs vilja. 1 Pèt. 1, 3. Jóh. 3, 3. 2 Kor. 5, 17.

d) Það sem ritníngin kallar helgun, er trúaðs kristins manns dagleg framför í dyggðum og guðhræðslu, sem eflist af samverkandi náð heilags anda, með iðuglegri brúkun guðs orða, bæn og árvekni. 1 Tess. 5, 23. 2 Kor. 7, 1. Róm. 12, 1. 2.

Þriðja grein trúarjátníngarinnar í Fræðunum, sýnir í stuttu máli, hvernig heilagur andi leiðir manneskjuna með sínum náðarverkunum og orðinu til sannarlegs apturhvarfs og ávaxtarsamrar trúar á Jesúm Krist. En í

annari bæninni í Fræðunum uppörfumst vèr til að biðja um aðstoð heilags anda, svo vèr getum orðið sannir kristnir, er sýni sig verðuga að vera þegna í Krists náðarríki; og í þriðju bæninni verðum vèr minntir á þá hlýðni, sem vèr erum guði um skyldugir, til að auðsýna með henni vora trú.

---

# Sjötti kapítuli.

## Um trúarinnar ávexti í heilögu líferni.

---

§. 1. Þar af á að sjást, hvert vor trú á Krist sè sönn og lifandi, að hún verkar í hjartanu hatur til allra synda, og þar á móti kröptuga eptirlaungun til að breyta eptir guðs vilja í öllum hlutum til að þóknast honum.

Jak. 2, 17. 26. Sýn mèr trú þína af verkum þínum, því eins og líkaminn er án andar dauður, svo er líka trúin dauð, þegar hún er án verkanna.

Róm. 12, 9. Hafið andstyggð á því sem vondt er, en haldið yður fast við hið góða. Post. gb. 15, 9.

Merk: a) Vèr getum ekki forþènað guðs náð og eilífa sáluhjálp, þar vor beztu verk eru ófullkomin, og guð er sjálfur sá, sem gefur kraptana til að framkvæma þau. Lúk. 17, 10.

b) Það lítið gott, sem vèr gjörum hèr á jörðunni með stórum vanmætti og breyskleika, getur ekki komið í samlíkíngu við þá ómetanlegu gleði, hverrar þeir guðhræddu mega vænta í enu betra lífi. Þess vegna vill guð einnig, ekki vegna verka vorra, heldur af náð sinni, gjöra oss sáluhólpna, vegna vorrar trúar á Jesúm Krist. Róm. 6, 23. Ef. 2, 8. 9.

c) Það er öldúngis nauðsynlegt, að vèr breytum eptir guðs vilja, þó vèr ekki þar með eigum skilið að fá hans náð, til þess að trúin sýni sinn krapt í góðum verkum, því annars getum vèr ekki orðið hæfilegir til að taka á móti þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir útvegað oss. Jak. 2, 14. Róm. 2, 7. 10.

§. 2. Sèrhvað það, sem guð hefir boðið oss að taka vara á, er vor skylda. Í lögmálinu, sem út var gefið á fjallinu Sínaí, eru þau almennilegu skylduverk í stuttu máli fyrirskrifuð, og innifalin í þeim tíu boðorðum, sem guð bauð Móses að rita á tvær steintöflur.

2. Mós. b. 20, 1—17. Guð talaði öll þessi orð og sagði: 1) Þú átt ekki að hafa annarlega guði fyrir mèr. 2) Þú átt ekki að leggja nafn drottins guðs þíns við hègóma, því drottinn mun ekki láta þann verða óstraffaðan, sem misbrúkar hans nafn. 3) Minnstu að halda hvíldardaginn heilagan. 4) Heiðra föður þinn og móður þína, svo þú lifir leingi í landinu. 5) Þú átt ekki að slá í hel. 6) Þú átt ekki að drýgja hórdóm. 7) Þú átt ekki að stela. 8) Þú átt ekki að bera falskan vitnisburð á móti þínum náúnga. 9) Þú átt ekki að girnast hús þíns náúnga. 10) Þú átt ekki að girnast þíns náúnga ektakvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustukvinnu, ellegar hans uxa, ellegar hans asna, ellegar nokkuð, sem heyrir þínum náúnga til.

Merk: Guðs lögmál, sem er innifalið í þeim tíu boðorðum, er að sönnu einkanlega fyrirskrifað Gyðíngum, en það inniheldur samt þau skylduverk, sem sèrhver manneskja á ætíð að gefa gætur að, því þau þèna til að efla bæði vort eigið og annara sanna gagn. Róm. 3, 31. 13, 8. 9.

§. 3. Sá er tilgángur allra guðs boðorða, eptir Krists eigin útleggíngu, að efla og staðfesta hjá manneskjunum framkvæmdarsama elsku til guðs, sjálfra þeirra og náúngans.

Matt. 22, 37—40. Jesús sagði: þú átt að elska drottinn guð þinn af öllu hjarta, allri þinni sálu og öllu þínu hugskoti, það er það fyrsta og helzta boðorð; og þessu líkt er hitt: þú átt að elska náúnga þinn eins og sjálfan þig. Í þessum tveimur boðorðum er innifalið allt lögmálið og spámennirnir. Róm. 13, 10.

Merk: það er ekki nóg, að vèr einúngis eptir vorn náttúrufari gjörum eitt eða annað gott, sem kann að vera oss geðfelt; ekki heldur er það sannarlegt góðverk, þó vèr gjörum gott einúngis til að fá hrós hjá mönnum, eður af ótta fyrir straffi og ofsóknum, ef það væri ógjört látið. Oss byrjar í öllu, sem vèr gjörum, að hafa þann tilgáng, að auðsýna kærleikann. Gal. 5, 6. 1. Jóh. 3, 23.

---

## A) Um skylduna við guð.

Vèr eigum að dýrka guð, eins og vorn skapara, yfirherra, stærsta velgjörara og elskuríkasta föður, bæði innvortis í sálunni, með vorum þaunkum og girndum, og líka útvortis, með orðum og athöfnum.

1 Kor. 6, 20. Þèr eruð dýru verði keyptir,

vegsamið þess vegna guð með yðar líkama, og með yðar öndu, sem guð á. Mal. 1, 6.

Merk: Vèr eigum einlæglega að dýrka guð, svo vèr ekki einúngis biðjum hann, lofum hann og þökkum honum með orðunum, eður auðsýnum honum útvortis lotníngu, heldur byrjar oss líka einkum að auðmýkja oss fyrir honum í hjartanu, óttast hann og elska, líka sýna lyst og laungun í öllu voru framferði til að breyta eptir hans vilja, því annars verður vor guðsdýrkun að hræsni, sem fyrir þeim alvísa og heilaga guði er mesta andstyggð. 1 Sam. 15, 22. 23. Es. 1, 11—18. Matt. 6, 1—18. 23, 13—33. Mark. 4, 1—25.

---

## I. Innvortis guðsdýrkunin.

§. 1. a) Vèr eigum að tilbiðja guð einan, því hann er vor skapari og sá einasti og sanni guð.

Matt. 4, 10. Jesús sagði: Drottinn guð þinn áttu að tilbiðja, og dýrka hann einan. Sálm. 99, 5.

b) Hver, sem rèttilega tilbiður guð, á með auðmjúkri lotníngu að viðurkenna hans allrastærstu fullkomlegleika, halda

hann fyrir hið hærsta góða, og líka við sèrhvert tækifæri auðsýna í verkunum, að hann virðir guð yfir alla hluti fram.

Sálm. 99, 5. Upphefjið drottinn vorn guð, og tilbiðjið fyrir hans fótskör, því hann er heilagur.

§. 2. a) Vèr eigum að óttast guð, því hann er heilagur og rèttlátur.

Prèd. 12, 13. Óttast þú guð og haltu hans boðorð, því það ber öllum mönnum að gjöra. Post. gb. 10, 35.

b) Guðhræðslan á að sýna sig í því, að vèr tökum oss umhyggjusamlegan vara fyrir öllu því, sem vèr höldum guði sè á móti.

Orðsk. b. 16, 6. Af ótta fyrir drottni forðast menn hið illa.

c) Vèr eigum ekki að óttast guð eins og óviljugir þrælar, af kvíða fyrir straffinu, heldur eins og hlýðin börn, því hann er svo góður og gæzkuríkur faðir.

Róm. 8, 15. þèr hafið ekki meðtekið þrældóms lunderni, að þèr þyrftuð aptur að verða hræddir, heldur hafið þèr feingið óskabarna hugarfar, af hverju vèr köllum: Abba, elskulegi faðir. 1. Mós. b. 39, 9.

§. 3. a) Vèr eigum að elska guð yfir

*alla hluti fram*, því hann er vor stærsti velgjörari, og af Kristi friðþægður faðir.

1. Jóh. 4, 19. Látum oss elska hann, því hann elskaði oss að fyrra bragði. 1. Jóh. 5, 1.

b) *Elskan til guðs útheimtir*, að *hugurinn innilega* gleðji sig af honum, og finni hjá sèr stærstu *laungun* eptir að *þóknast honum*, með því að breyta eptir hans vilja.

1. Jóh. 5, 3. Í því er elskan til guðs innifalin, að vèr höldum hans boðorð, en hans boðorð eru ekki þúng. Sálm. 18, 2.

§. 4. a) Vèr eigum að *hlýða guði*, því hann er ekki einúngis vor æðsti, heldur og líka sá vísasti og bezti yfirherra.

Jer. 11, 4. Drottinn sagði: Hlýðið mèr og gjörið allt, sem eg hefi boðið yður, þá skuluð þèr vera mitt fólk, og eg skal vera yðar guð. Post. gb. 5, 29.

b) *Hlýðnin* við guð er í því innifalin, að vèr ætíð með fúsum vilja leggjum allt kapp á, að *laga vort sinnislag og framferði eptir guðs vilja*, til að þóknast honum, og alvarlega taka oss vara fyrir því, að *brjóta* hans *boðorð* af ásetníngi.

Sálm. 143, 10. Drottinn, kenn þú mèr að gjöra það sem þú vilt, því þú ert minn guð. 1 Pèt. 1, 14. 15.

§. 5. a) Vèr eigum að reiða oss upp á guð, því hann bæði vill og getur gefið oss tímanlega, andlega og eilífa velferð.

1 Pèt. 5, 7. Kastið allri yðar áhyggju upp á drottinn, því honum er annt um yður. Sálm. 55, 23.

b) Að reiða sig upp á guð er sama sem að treysta honum, og er innifalið í því, að vèr sèum fullkomlega sannfærðir um, að guð, vegna Jesú Krists, vilji gjöra oss hluttakandi í öllu því góða, sem hann hefir lofað oss í sínu orði, líka að hann, eptir sinni alvísu ráðstöfun, vilji veita oss sína hjálp með bezta máta og á hagkvæmustu tíð.

Sálm. 146, 5. 6. Sæll er sá, hvers hjálp Jakobs guð er, sá sem hefir staðfasta von til guðs, sem gjörði himininn og jörðina og sjóinn, og allt það, sem er í þeim: til hans, sem heldur trygð æfinlega. Jer. Harmagr. 3, 25. 26. Róm. 8, 32.

---

**Af öllu þessu fylgir þá framvegis:**

§. 6. Vèr megum ekki tilbiðja neitt annað í staðinn fyrir sannan guð, hvorki eingla, nè helga menn, nè sól, nè túngl, nè bílæti, ellegar neitt annað þvílíkt, og ekki heldur reiða oss upp á það, í staðinn fyrir að setja vort trúnaðartraust til þess sanna guðs, því hann einúngis er vor drottinn og skapari; annars syndgum vèr á móti fyrsta boðorðinu, og gjörum oss seka í afguðadýrkun.

2. Mós. b. 20, 3. 4.. Drottinn sagði: Þú átt ekki að hafa annarlega guði fyrir mèr. — Þú mátt ekki smíða þèr neina úthöggna eða annars slags mynd eptir því, sem er á himnum uppi, ellegar á jörðunni niðri, ellegar í vötnunum undir jörðunni. — Þú átt ekki að tilbiðja eður dýrka það. Es. 42, 8. Post. gb. 17, 29.

§. 7. Vèr megum ekki elska sjálfa oss, ellegar neitt annað meir en guð eður jafnt guði; ekki heldur megum vèr treysta upp á sjálfa oss, aðra menn ellegar aðra hluti, meir en upp á guð, vegna þess hann einn er vor almáttugi og stærsti velgjörari.

Jer. 17, 5. Svo sagði drottinn: bölvaður

veri sá maður, sem treystir upp á manneskjuna, og hefir holdið fyrir sinn arm — ellegar heldur, að sèr sè óhætt með vanmáttugrar manneskju varatekt — og hvers hjarta víkur frá drottni.

Orðsk. b. 3, 5. Treystu drottni af öllu þínu hjarta, en reiddu þig ekki fast á þitt hyggjuvit.

§. 8. Vèr eigum daglega að stríða móti þeim syndsamlegu girndum, sem guði eru á móti, og aldrei brjóta hans boðorð af ótta fyrir mönnum, eður elsku til þeirra, því hann er sá heilagur guð, hvern vèr eigum að óttast, og líka sá góður og vísdómsfullur drottinn, sem vèr eigum að elska og hlýða fram yfir alla hluti.

1. Jóh. 2, 15—17. Elskið ekki veröldina og ekki þá hluti, sem í henni eru; ef nokkur elskar veröldina, þá er elskan til föðursins ekki í honum; því allt það, sem í veröldinni er, sem er lyst holdsins, fýsn augnanna og drambsamt líferni, það er ekki af föðurnum, heldur af veröldinni. Veröldin forgeingur og hennar lystíngar, en sá sem gjörir eptir guðs vilja, varir að eilífu.

Orðsk. b. 1, 10. Son minn, þegar íllir skálkar lokka þig, þá fylg þeim ekki.

§. 9. Vèr eigum að auðsýna vorum náúnga einlæga elsku, til merkis um, að vèr án yfirdrepskapar elskum guð, sem vill, að kærleikurinn sè eins ríkur hjá oss, eins og hann er hjá sjálfum honum; þar að auki eigum vèr að leggja kapp á, að breyta eptir guðs vilja í öllum hlutum.

1. Jóh. 4, 21. Þetta boðorð höfum vèr af honum, að hver sem elskar guð, hann á líka að elska sinn bróður. 1. Jóh. 3, 17. 18. 4, 7—13.

1. Jóh. 2, 5. Hver sem hans orð varðveitir, í honum er sannarlega elskan til guðs fullkomin. Jóh. 15, 14.

Merk: Þau skylduverk, sem við víkja innvortis guðsdýrkun, eru í stuttu máli tilgreind í Lúters útleggíngu yfir fyrsta boðorðið í Fræðunum.

---

## II. Útvortis guðsdýrkunin.

§. 1. a) Vèr eigum að lofa og vegsama guð, því hann er sú fullkomnasta og æðsta vera.

Sálm. 72, 18. 19. Lofaður veri drottinn guð, Ísraels guð, hann sá einn gjörir dásemdarverkin; blessuð sè hans dýrðarfulla hátign að eilífu, og öll lönd uppfyllist með hans dýrkun.

b) Guð lofast og vegsamast, þegar vèr

annaðhvert með bænum, sálmum eður samtali við aðra, hrósum guðs ypparlegu eiginlegleikum og miklu dásemdarverkum af klökku hugarþeli, sem fullt er af heilagri lotníngu fyrir honum.

Sálm. 145, 3. 4. Mikill er drottinn og mjög loflegur, hans makt er órannsakanleg; sèrhver kynslóð mun fyrir annari hrósa þínum verkum, drottinn, og kunngjöra þitt veldi.

§. 2. a) Vèr eigum að þakka guði, því hann veitir oss svo mikla velgjörnínga, og auðsýnir oss svo mikla náð vegna Jesú Krists.

Ef. 5, 20. þakkið ætíð guði föður fyrir alla hluti, í nafni vors drottins Jesú Krists. 1. Tess. 5, 18.

b) Ef vèr eigum að geta þakkað guði rèttilega, þá ber oss að kannast við og auðmjúklega játa, að guðs mikla miskunsemi við oss er lángtum meiri en vèr höfum tilunnið, og þar að auki eigum vèr að færa oss hans velgjörnínga rèttilega í nyt, eins og hann hefir til ætlað.

Sálm. 118, 1. þakkið þèr drottni, því að

hann er góður, og hans miskunsemi varir eilíflega. Sálm. 105, 1.

§. 3. a) Vèr eigum að biðja guð og ákalla hann, því hann einn ræður fyrir vorri tímanlegri og eilífri velferð, þar Kristur vor talsmaður, hefir einnig opnað oss aðgáng til hans, svo sem vors gæzkuríka og elskufulla föðurs.

Lúk. 11, 9. Jesús sagði: Biðjið, þá mun yður gefast; leitið, þá munuð þèr finna; knýið á, og mun fyrir yður upplokið verða. Sálm. 50, 15. 145, 18—19.

b) Það heitir bæn og ákallan, þegar vèr framberum fyrir guð, annaðhvert í huganum eður með munninum, vora laungun eptir einhverju góðu, sem oss er lofað í hans orði, og sem oss sýnist nauðsynlegt til vorrar eigin eður annara velferðar.

1. Jóh. 5, 14. Þessi er sú djörfúng, sem vèr höfum til hans, að ef vèr biðjum um nokkuð eptir hans vilja, þá heyrir hann oss.

§. 4. Þar eð sunnudagurinn er tilskikkaður til opinberrar guðsdýrkunar, þá á sèrhver kristinn maður að fara til kirkju, sèr og öðrum til uppbyggíngar af guðs orða

heyrn og lestri; líka uppbyggíngar af því, að lofa guð og þakka honum sameiginlega með öðrum sínum samkristnum, svo þeir innbyrðis staðfestist í dyggð og guðhræðslu; og frá því á ekkert að hindra oss, nema sjúkdómar, eða önnur þvílík forföll, sem ekki verður hjá komizt.

2. Mós. b. 20, 8. Drottinn sagði: Minnstu að halda helgan hvíldardaginn. Lúk. 11, 28. Kól. 3, 16. Látið Krists orð búa ríkuglega meðal yðar, svo að þèr kennið og áminnið yður sjálfa innbyrðis með alls konar vísdómi, og sýngið fagra sálma, lofsaunga og andleg kvæði fyrir drottni í yðar hjörtum. Hebr. 10, 25.

---

## Hèr af fylgir enn fremur:

§. 5. a) Vèr megum hvorki brúka guðs nafn gálauslega nè athugalaust, allra sízt vanheiðra það með nokkurs slags misbrúkun, miklu heldur erum vèr skyldugir til að lofa og vegsama guð.

2. Mós. b. 20, 7. Drottinn sagði: Þú átt ekki að leggja nafn drottins guðs þíns við hè-

góma, því drottinn mun ekki láta þann óstraffaðan, sem misbrúkar hans nafn.

b) Guðs nafn vanheiðrast með að formæla, þegar vèr annaðhvert í guðs eða Krists nafni óskum ílls sjálfum oss eða öðrum. Slíkar formælíngar geta og skeð með mörgu öðru móti, sem auglýsir allt eins blygðunarlaust sinnislag, er ekki svífist neins í guðs allraheilögustu nálægð, nè gefur gaum að, hversu mjög hver ein manneskja á að elska sjálfa sig og náúngann.

Jak. 3, 10. Af sama munni fram geingur bæði blessan og bölvan; bræður mínir, þetta má ekki svo til gánga. Róm. 12, 14.

c) Guðs nafn vanheiðrast með að sverja, þegar einhver í daglegu tali gálauslega vitnar til guðs eða Krists, til að staðfesta þar með orð sín.

Matt. 5, 34—37. Þèr skuluð öldúngis ekki sverja, en yðar ræða skal vera já, þegar játa skal, og nei, þegar neita á, því hvað sem þar er fram yfir, er vont.

§. 6. a) Þegar vèr eigum opinberlega að sverja, megum vèr ekki gleyma því, að

sá alvísi guð, hvern vèr köllum til vitnis, er bæði rèttlátur og heilagur guð, sem hatar allt óhreinlyndi, og að hann mun harðlega straffa þá, sem sverja ránglega, því þeir vanbrúka hans nafn til að hylja með íllsku og rángindi.

2. Mós. b. 20, 16. Drottinn sagði: þú átt ekki að bera falskan vitnisburð á móti þínum náúnga.

Sak. 5, 4. Eg lèt bölvun útfara, segir drottinn Sebaot, svo hún komi yfir þjófsins hús, og þess, sem sver ránglega við mitt nafn. Mal. 3, 5.

b) Menn sverja eið eptir yfirvaldsins skipun, stundum til staðfestíngar upp á, að vèr skulum ekkert segja eður vitna annað en það, sem vèr vitum fyrir víst að satt er; og stundum til fullvissu um, að vèr viljum trúlega lifa eptir því, sem oss er fyrirsett og vèr höfum undirgeingizt.

Hebr. 6, 16. Manneskjurnar sverja við þann, sem er æðri en þeir sjálfir, og sá eiður gjörir enda á allri þrætu til að fá fullvissu. 5. Mós. b. 6, 13.

c) Hver, sem fremur meinsæri eða sver

ránglega, getur álitizt ekki einúngis eins og blygðunarlaus guðlastari, vegna þess hann manar hins alvísa guðs rèttlæti móti sèr, heldur og líka eins og fjandmaður sinna samkristinna, hverra velferð og æru hann opt spillir, svo sá saklausi verður fyrir hallanum, en hinn seki sleppur óstraffaður, og fær aptur tækifæri til að koma meiru íllu til leiðar.

1 Tím. 1, 10. Postulinn Páll leggur meinsærismenn að jöfnu við morðíngja og vestu íllvirkja.

§. 7. Vèr megum ekki fara með galdur, sem er hjátrúar - og heimsku - full vanbrúkun á guðs orði, til að fremja kukl eða særa, ellegar til annara þvílíkra heimskulegra fyrirtekta af rángri ímyndun um, að menn með þessu geti læknað manneskjur eða fènað, sýnt hver stolið hafi, varnað tjóni og ólukku, eða annað því um líkt.

5. Mós. b. 18, 10—12. Einginn á að finnast hjá þèr, sem fer með spádóma, eða er dagveljari, ellegar tekur mark á fuglakvaki, ellegar er galdramaður, eður særíngamaður, ellegar fer til spásagnarmanna, ellegar útþýðir fyrirburði, ellegar leitar frètta af framliðnum,

því hver, sem þvílíkt gjörir, er drottni andstyggilegur.

§. 8. a) Vèr megum ekki vanhelga hvíldardaginn með ónauðsynlegri vinnu, því þann dag eigum vèr sèr í lagi, eptir guðs boði, að halda heilagan með andakt og guðrækilegum umþeinkíngum.

Sálm. 95, 1. 2. Komið, látum oss með glaðværð lof sýngja drottni; látum oss af fögnuði hátt lof sýngja vorum volduga frelsara; látum oss koma fyrir hans ásjónu með þakkargjörð.

b) Það er sanngjarnlegt, og guðs vilja samkvæmt, að sunnudagurinn sè mönnum og skepnum til hvíldar og endurlífgunar eptir vinnu þeirra; þess vegna kallast líka þessi dagur, sem kristnir menn halda heilagan í Krists upprisu minníngu, enn þá hvíldardagur.

2. Mós. b. 23, 12. Sex daga skaltu verk þitt vinna, en sjöunda daginn áttu að hafa fyrir hvíldardag, svo að þinn uxi og þinn asni geti feingið hvíld, og þinnar ambáttar sonur og sá framandi geti endurnært sig. 2. Mós. b. 20, 8—11.

Merk: Skylduverkin, sem við víkja útvortis guðs-

dýrkun, eru stuttlega útmáluð í öðru og þriðja boðorði Fræðanna.

---

## B) Um skylduna við sjálfa oss.

Vèr eigum að elska sjálfa oss, og einkanlega að láta oss vera annt um vorrar sálar velferð; líka eigum vèr að stunda eptir sannarlegu gagni líkama vors; sem og að efla með leyfilegum hætti vora tímanlega velferð, eins og samkvæmt er guðs orði og vilja.

Matt. 6, 33. Jesús sagði: Leitið fyrst guðs ríkis og þess rèttlætis, sem honum er þóknanlegt, þá munuð þèr fá í viðbót allt, sem þèr meðþurfið.

Merk: Manneskjan elskar sig ekki sjálfa rèttilega, þegar hún sækist einúngis eptir að seðja sínar jarðnesku girndir, án þess að hirða um sína sáluhjálp, eða gefa gætur að því, sem hún er bæði guði og öðrum mönnum skyldug um.

---

### I. Umhyggja fyrir sálunni.

§. 1. Vèr eigum að láta oss vera umhugað um, að vor skynsemi upplýsist meir og

meir með skynsamlegri þekkíngu, sèrdeilis um guðs vilja og hans ráð til vorrar sáluhjálpar.

2 Pèt. 3, 18. Vaxið í vors drottins og endurlausnara Jesú Krists náð og þekkíngu. Orðsk. b. 2, 10. 11. 1 Kor. 14, 20.

§. 2. Vèr megum ekki láta vorn vilja stjórnast af neinum vondum tilhneigíngum, heldur eigum vèr af fremsta megni að kappkosta að laga þær eptir því, sem vorri skynsemi sýnist að vera rètt og tilheyrilegt, eptir guðs orða reglu.

Orðsk. b. 16, 32. Sá sem stjórnar geði sínu, er betri en sá, sem yfirvinnur borgir. Gal. 5, 24.

§. 3. Vèr megum ekki afsaka vorar ávirðíngar, heldur keppast eptir, eins og guð hefir látið Krist kenna oss, að sjá æ meir og meir við þeim og afleggja þær.

2 Kor. 7, 1. Með því vèr höfum þvílíkt fyrirheit, mínir elskanlegir, þá látum oss hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og höldum áfram í helguninni með guðhræðslu. 1. Jóh. 1, 6.

§. 4. Vèr eigum með gaumgæfni að vaka yfir samvizku vorri, svo vèr ekki vísvitandi ofþýngjum hana með neinni synd.

Post. gb. 24, 16. Postulinn Páll sagði: Eg æfi sjálfan mig í að hafa jafnan óskerta samvizku fyrir guði og mönnum.

§. 5. Vèr eigum opt að þeinkja um dauðann, sem fljótt getur að óvörum yfirfallið oss, þó svo, að vèr hvorki skelfumst af honum, ellegar lifum með sorg og órósemi, heldur á það að þèna til þess, að vèr því betur undirbúum oss í sönnum guðs ótta til sáluhjálplegrar burtfarar.

2 Kor. 5, 8. 9. Vèr erum hughraustir og höfum miklu meiri lyst til að vera fjarlægir frá líkamanum og heima hjá drottni; þess vegna kappkostum vèr líka, hvert sem vèr erum heima eða fjærverandi, að vera honum þóknanlegir. Sálm. 90, 12. Fil. 1, 23.

---

## II. Umhyggja fyrir líkamanum.

§. 1. Vèr megum hvorki með ásetníngi taka sjálfir af oss lífið, sem er sú ypparsta gáfa, er guð hefir gefið oss, nè viljandi skaða vora limi eður heilsu, því þar með reynum vèr til með heimskulegri ofdirfsku að taka ráðin af guði, sem einsamall hefir vald yfir lífi og líkama manneskjunnar, en sviptum náúngann

þeirri aðstoð, sem hann með rètti mátti af oss heimta; þar að auki breytum vèr svo grimdarlega við sjálfa oss, að ekki finnast dæmi til slíks meðal ómustu villudýra.

Róm. 14, 7. 8. Einginn af oss hefir ráð á að lifa eður deya eptir vild sinni, því hvert sem vèr lifum, þá erum vèr á drottins valdi, ellegar deyum, þá erum vèr eins á drottins valdi, það er að skilja: hvert sem vèr lifum ellegar deyum, þá á drottinn ráð yfir oss. 1 Kor. 6, 19. 20. 1 Sam. 31, 4. 2 Sam. 17, 23. Matt. 27, 5.

§. 2. Vèr eigum að forðast allt óhóf í mat og drykk, sem einúngis spillir heilsunni og eyðir vorri formegun, en gjörir oss óhæfilega bæði til að lofa guð og líka vinna það, sem oss ber að gjöra.

Lúk. 21, 34. Jesús sagði: Varið yður sjálfa, að yðar hugskot aldrei ofþýngist af ofáti eður ofdrykkju. Róm. 13, 13.

Gal. 5, 21. Ofdrykkja og ofát teljast með þeim hlutum, um hverja postulinn Páll segir: að þeir sem slíkt göjri, muni ekki öðlast guðs ríki. Orðsk. b. 23, 20. 21.

§. 3. Vèr eigum að halda oss frá hórdómi og alls slags lauslæti, bæði innvortis í þaunk-

unum og útvortis með verkinu; því þar af spillist líkaminn og sálin saurgast, svo hún verður óhæfileg til að hugsa um nokkuð gott, og missir alla laungun eptir dyggð og guðs ótta, en auðsýnir því frekar sínar saurugu girndir í orðum og viðmóti, öðrum til hneykslis.

2. Mós. b. 20, 14. Drottinn sagði: þú átt ekki að drýgja hór. Matt. 5, 27. 28.

1 Tess. 4, 3—5. Sá er vilji guðs, að þèr heilagir sèuð og forðizt frillulifnað, svo hver og einn stundi að halda sínum líkama í hreinlífi og sóma, en ekki girndarbruna, eins og heiðíngjarnir, sem ekki þekkja guð.

Ef. 5, 3—5. Eptir sem heilögum hæfir, á hvorki frillulífi, nè nokkurs konar óhreinleiki eður ágirni, svo mikið sem nefnast meðal yðar, nè blygðunarleysi, nè fíflslegt hjal, eður gárúngaháttur, því slíkt er ósæmilegt, heldur miklu fremur þakkargjörð; því það vitið þèr, að einginn frillulífis maður, eður óhreinn, eður ágjarn, sem er skurðgoða dýrkari, hefir hlutskipti í Krists og guðs ríki. 1 Kor. 6, 15—20.

Merk: Í Fræðunum er við sjötta boðorðið stutt útskýríng um kristilegt skírlífi; og í sjöttu bæninni finnst uppörfan til að biðja guð um náð og styrk, að standa á móti þeim freistíngum, sem í þeim sínum kynnu að mæta oss.

## III. Umhyggja fyrir vorri tímanlegri velferð.

§. 1. a) Vèr eigum að kappkosta að efla vora velgengni, bæði með ástundun í voru rètta kalli og embætti, og með forsjálegri sparsemi, svo vel sjálfum oss til gagns, sem og líka til að geta hjálpað öðrum, er við þurfa.

Post. gb. 20, 34. 35. Postulinn Páll segir til Efesusmanna: þèr vitið sjálfir, að þessar hendur hafa fyrir mèr unnið til minnar nauðþurftar og þeirra, sem með mèr voru. Í öllu sýndi eg yður, að svo byrjar oss að vinna, og veika að annast, og minnast orða drottins Jesú, þar hann sagði: sælla er að gefa en þiggja. 1 Tím. 6, 17. 18.

b) Í því að stunda gagn vort, eigum vèr að varast ólöglegan ávinníng eða ágirnd, og ekki sækjast eptir auðæfum, sem opt misbrúkast til ofmetnaðar og óhófs.

1 Tím. 6, 9. 10. þeir, sem ríkir vilja verða, falla í freistni og snörur og margs konar heimskulegar og skaðnæmar girndir, sem manneskjunum sökkva í eyðileggíngu og töpun, því ágirndin er rót alls ills, Lúk. 12, 15. 1 Kor. 6, 10.

§. 2. a) Vèr eigum að keppast eptir að á-

vinna oss heiður, vera í afhaldi og teljast trúverðugir af vorum meðbræðrum, þó samt ekki með öðru en ráðvendni og kostgæfni í voru rètta kalli og embætti.

Fil. 4, 8. Kærir bræður, hvað sem satt er og siðsamlegt, hvað rèttvíst er, hvað skírlíft er og ástsamlegt, hvað sem er gott afspurnar, hvað dyggðugt er, hvað hrósvert er, hugsið þar eptir.

b) Þótt vèr höfum öðlast allan þann heiður, sem vèr æskja kynnum, megum vèr samt ekki falla til metnaðar eða drambsemi, heldur ætíð stunda kristilegt lítillæti, því vèr eigum að vita, að alla hluti höfum vèr af guði þegið, og að oss yfirsèst optlega, svo vèr þurfum fyrirgefníngar við.

Gal. 5, 26. Látum oss ekki sækjast eptir hègóma hrósi, og hvorki ögra hver öðrum nè öfunda hver annan. Róm. 12, 10.

1 Pèt. 5, 5. Verið skrýddir með lítillæti, því guð mótstríðir dramblátum, en lítillátum gefur hann náð. Matt. 23, 12. Orðsk. b. 29, 23.

§. 3. a) Vèr megum njóta ánægju í þessu lífi, af því að brúka rèttilega þá mörgu góðu hluti, sem guð hefir sínum sköpuðu

skepnum til gagns og gleði gefið; líka höfum vèr mikla ánægju af vinnu vorri, þegar vèr tilbærilega og með glaðværu sinnislagi gjörum hana.

Sálm. 31, 8. Gleðja skal eg mig, drottinn, og vera glaðvær af þinni miskunsemi. Fil. 4, 4. Orðsk.b. 17, 22.

b) Í vorri gleði eigum vèr að taka oss vara fyrir öllu því, sem stríðir á móti góðri siðsemi, eður því, sem guð hefir boðið í sínu orði, og ekki álíta hana svo sem helzta tilgáng vinnu vorrar, heldur eins og ávöxt af henni.

1 Kor. 7, 31. Þeir, sem brúka þennan heim, eiga að vera eins og þeir, sem ekki misbrúka hann.

§. 4. a) Vèr eigum að auðsýna oss þolinmóða í mótlætinu, svo vèr hvorki örvæntum nè látum til vor heyra víl eða harmatölur, heldur sèum ánægðir með það, sem guð vill vera láta, í vissri von um, að hann ekki uppáleggi oss þýngri byrði, en hann sjálfur vill gefa oss krapta að bera, og trúum staðfastlega, að eptir hans tilætlun skuli þetta andstreymi þèna oss til gagns og góða.

Hebr. 10, 35. 36. Kastið ekki burt yðar örugga móð, hver mikil laun mun öðlast; því þèr þurfið á stöðuglyndi að halda, svo að nær þèr hafið gjört guðs vilja, fáið að öðlast það, sem yður hefir verið lofað. Róm. 8, 18.

b) Vorar þjáníngar geta opt orsakazt með ýmsu móti af sjálfum oss, en sá alvísi guð lætur oss þær að höndum koma, til þess vèr athugum vora bresti, betrum vorn lifnað, höldum voru sinni því meir frá hègóma veraldarinnar, og lærum að leita vorrar kærustu gleði í því að halda oss til hans með bæn og andakt.

Hebr. 12, 5. 6. Minn son, virð ekki lítils typtun drottins og örvílnast ekki, þá hann ávítar þig; því hvern sem drottinn elskar, þann agar hann. Sálm. 119, 7. Róm. 5, 3—5.

§. 5. Vèr eigum að forðast allt iðjuleysi, hvert að er orsök til mikils ílls, og taka oss vara fyrir að vera öðrum til þýngsla; þar á mót eigum vèr með kostgæfilegri iðni og ástundun, hver í sínu standi, að leita vorrar atvinnu, því guð hefir gefið oss kraptana til þess, að vèr skulum brúka þá, og efla þar með vort eigið og annara gagn.

1 Tess. 4, 11. 12. Vèr áminnum yður, kærir bræður, að þèr kostgæfið að lifa í spekt og yðvart eigið að stunda, og að vinna með yðar eigin höndum, eins og vèr höfum boðið yður, svo að þèr getið sómasamlega umgeingizt þá, sem ekki eru af söfnuðinum, og að þèr sèuð upp á eingan komnir. 2 Tess. 3, 11. 12. 1 Pèt. 4, 11.

---

## C) Um skylduna við náúngann.

Vèr erum skyldugir að elska vorn náúnga eins fölskvalaust og sjálfa oss; þess vegna eigum vèr að breyta svo við hann, eins og vèr viljum að hann breyti við oss. Þar fyrir eigum vèr að bera umhyggju fyrir hans sálu, hans líkama, og hans tímanlegu velferð.

Matt. 7, 12. Jesús sagði: Hvað sem þèr viljið mennirnir gjöri yður, það eigið þèr líka þeim að gjöra, því svo er kennt í lögmálinu og spámannabókunum. 3. Mós. b. 19, 18.

Merk: Sèrhver sá, sem er manneskja, er líka vor náúngi, og hefir sama rètt eins og bróðir til kærleika vors og þènustusemi, hvert sem hann er innlendur eða útlendur, kristinn eða gyðíng-

ur, tyrki eða heiðíngi, vinur eða óvinur, æðri eða lægri stèttar, ríkur eða fátækur, og þegar hann þarf hjálpar við af oss, þá erum vèr skyldugir að hjálpa honum af fremsta megni, án manngreinar álits. Lúk. 10, 25—37. Post. gb. 17, 26.

---

## I. Umhyggja fyrir sálu náúngans.

§. 1. Vèr eigum, svo mikið sem oss er mögulegt, að greiða veg vors náúnga til betra lífs í öðrum heimi, og þess vegna hjálpa honum með nytsamlegri tilsögn, góðum áminníngum, kærleiksfullum aðvörunum, og um fram allt með góðu eptirdæmi, því Kristur hefir endurleyst hann eins og oss, til þess að hann ásamt með oss skyldi eignast eilífa sáluhjálp.

Jak. 5, 19. 20. Bræður mínir, ef nokkur á meðal yðar villist frá sannleikanum, en einhver umvendir honum, sá skal vita, að hver sem snýr syndaranum frá villu hans vegar, mun frelsa sálu frá dauðanum og hylja fjölda af syndum. 1 Tess. 5, 14. Hebr. 10, 24.

§. 2. Vèr eigum að varast að kefja lyst náúnga vors til þess sem gott er; þess

vegna megum vèr ekki gefa honum hneyksli, með syndsamlegum orðum eður óguðlegu framferði, ekki heldur koma honum til þess, sem íllt er, annaðhvert með hótunum, tillokkunum, eður með raungum fortölum.

Lúk. 17, 1. 2. Jesús sagði við sína lærisveina: Ómögulegt er, að hneykslanir komi ekki, en vei þeim manni, frá hverjum þær koma! þarfara væri þeim, að mylnu-steinn heingdist um háls honum, og honum væri sökkt í sjávardjúp, en að hann hneyksli einn af þessum smælíngjum.

2 Tím. 3, 13. Vondar manneskjur og svikarar vesna meir og meir; þeir svíkja og verða sviknir.

§. 3. a) Vèr eigum ekki að láta egna oss til heiptar-reiði mót vorum náúnga, eða fá hatur til hans og leitast við að hefna vor, þegar hann misbrýtur við oss, svo vèr gjörum honum ekki hjartasorg, til kvalar á sálu eður líkama.

Ef. 4, 26. 27. 31. Ef þèr reiðizt, þá syndgið ekki, látið ekki sólina undir gánga yfir yðar reiði. Gefið ekki tækifæri þeim, sem ber róg: öll beiskyrði, heipt, reiði, hávaði og íll-

yrði sèu lángt frá yður, ásamt alls konar íllmennsku.

1 Jóh. 3, 15. Hver sem hatar bróður sinn, sá er morðíngi, en þèr vitið, að einginn morðíngi hefir eilíft líf. Jak. 1, 19. 20.

b) Það er kristileg skylda, að vèr með hógværð umberum breyskleika vors náúnga, þegar hann hefir gjört oss nokkuð á móti, og að vèr fyrirgefum honum, eins og guð fyrirgefur sjálfum oss vegna Krists. Auk þessa eigum vèr, svo mikið sem oss er mögulegt, með vinsamlegum fortölum, að koma honum til að sjá að sèr, svo að hann vari sig við að halda áfram í syndunum.

Mark. 11, 25. 26. Jesús sagði: Fyrirgefið, ef þèr hafið nokkuð á móti einhverjum, svo að yðar faðir, sem er á himnum, fyrirgefi yður líka yðar afbrot; en ef þèr fyrirgefið ekki, þá mun yðar faðir, sem er á himnum, ekki heldur fyrirgefa yðar afbrot.

Kól. 3, 12. 13. Svo skrýðizt nú, eins og guðs útvaldir, heilagir og elskanlegir, hjartfólginni miskunsemi, góðvilja, auðmýkt, hóglyndi, lánglundar-geði, umlíðið hver annan, og ef nokkur hefir klögumál móti öðrum, þá fyrirgefið það hver öðrum innbyrðis; eins og

Kristur hefir fyrirgefið yður, svo gjörið þèr og einnig.

§. 4. a) Vèr eigum hvorki að hata vora óvini, sem annaðhvert heimuglega eður opinberlega vilja gjöra oss skaða, nè í nokkurn máta hefna vor á þeim, svo vèr ekki gefum þeim tilefni til stærri vonzku, eða sèum orsök í þeirra sálartöpun.

Róm. 12, 14. 17. 19. Blessið þá, sem ofsækja yður, blessið en bölvið ekki; gjaldið eingum íllt fyrir íllt; ef mögulegt er, þá hafið frið við alla menn, svo mikið sem í yðar valdi stendur; hefnið yðar ekki sjálfir.

b) Þegar óvinir vorir sækjast eptir að skaða vort líf, spilla vorri velferð, eða gjöra oss viðskila við vort góða mannorð, megum vèr verja oss móti þeim með almennilegum rèttargángi, en vera samt ætíð reiðubúnir að sættast við þá, biðja fyrir þeim og hjálpa þeim eptir megni, ef þeir þess viðþurfa, eins og guð hefir auðsýnt oss náð Krists vegna, og fyrir hans sakir vill fyrirgefa sjálfum oss.

Matt. 5, 25. 44. Jesús sagði: Vertu strax viljugur til að sætta þig við þinn mótstöðu-

mann, meðan þú ert enn á vegi með honum. Eg segi yður: elskið óvini yðar, blessið þá, sem yður bölva, gjörið þeim gott, sem yður hata, og biðjið fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsækja yður, svo að þèr sèuð börn föðurs yðar, sem er á himnum. v. 45—48. Róm. 13, 3. 4.

Róm. 12, 20. 21. Ef óvin þinn húngrar, þá gef honum að eta, ef hann þyrstir, þá gef honum að drekka. Lát ekki hið vonda yfirbuga þig, en yfirvinn hið vonda með góðu. Róm. 5, 8. 10.

§. 5. a) Vèr höfum eingan rètt til að fyrirdæma nokkra manneskju, þó hún hafi rángar meiníngar, eða vegna þess hún er ekki sömu trúarbragða sem vèr; heldur eigum vèr, eins og sannkristnir, að fela vora frávilltu bræður guðs miskun á hendur, og gleðjast af þeirri von, að þeir muni verða hluttakandi í Krists endurlausn, þegar þeir hafa vandað sitt framferði eptir þeirri þekkíngu, sem þeir hafa haft færi á að öðlast.

Post. gb. 10, 34. 35. Eg reyni í sannleika, að guð fer ekki í manngreinar-álit, heldur er hver sá, sem óttast hann og gjörir hvað

rètt er, honum þóknanlegur, af hverri þjóð sem hann er. Róm. 14, 4. 10. 13.

b) Vèr megum öldúngis einga grunsemd fá, að þeir hafi drýgt nokkurn sèrdeilis glæp, sem ratað hafa í eymd og volæði, því guð úthlutar, eptir sinni alvísu ráðstöfun, sorg og gleði hverjum sem hann vill, ekki til að straffa þá, heldur öðrum til viðvörunar.

Lúk. 13, 2. 3. Jesús sagði: Meinið þèr að þessir Galíliskir — hverra blóði Pílatus hafði úthellt — hafi verið syndugri en allir aðrir Galíliskir, þó þeir hafi orðið fyrir þessu; nei, segi eg yður, heldur, ef þèr takið ekki sinnaskipti, munuð þèr allir eins fyrirfarast. Jóh. 9, 1—3.

---

## II. Umhyggja fyrir líkama náúngans.

§. 1. Vèr megum ekki leggja hendur á vorn náúnga, hvorki til að firra hann lífi, nè gjöra heilsu hans og limum skaða, því þar með rænum vèr frá honum því stærsta góða, sem guð hefir gefið honum í þessu lífi, og sú órèttvísi er svo viðurstyggileg í guðs

augliti, að hann líka vill hún verði ströffuð hèr í heimi, eptir yfirvaldsins tilhlutun.

2. Mós. b. 20, 13. þú átt ekki að slá manneskju í hel. Gal. 5, 20. 21.

1. Mós. b. 9, 6. Hver sem úthellir blóði nokkurrar manneskju, hans blóð skal af öðrum manni úthellt verða, því guð gjörði manninn eptir sinni mynd. Róm. 13, 3. 4.

§. 2. Vèr megum ekki uppáleggja vorum náúnga meira erviði, en hann getur afkastað, svo vèr ekki veikjum hans krapta; ekki heldur megum vèr gjöra honum hjartasorg, af hverri lífi hans eða heilbrigði kynni að verða hætt.

Tít. 3, 2. Minntu þá á, að þeir ekki lastyrði neinn, sèu ekki þrætugjarnir, heldur eptirlátir, og auðsýni alls konar hógværð við hvern mann.

§. 3. Vèr eigum að vara náúngann við því, sem honum er skaðvænlegt, en ráða honum til þess, sem honum er hollast, svo hann ekki með óframsýni stytti líf sitt; þar að auki eigum vèr að hjálpa honum eptir efnum, og eingan veginn synja honum um vora liðveizlu, þegar nauðsyn krefur.

Fil. 2, 4. Sèrhver yðar gæti ekki einúngis að sínu gagni, heldur og líka annara. Orðsk. b. 12, 15.

Merk: Vor skylda í tilliti til náúngans lífs og líkama, er í stuttu máli framsett í fimta boðorði Fræðanna.

## III. Umhyggja fyrir tímanlegri velferð náúngans.

§. 1. a) Vèr megum ekki með neinu gefa tilefni til, að náúngi vor missi nokkuð af sínu gózi eður fjármunum, sem eru hans eigin, og guð hefir gefið honum, til að efla með hans velferð; heldur eigum vèr að bera umhyggju fyrir, að hann hafi allt sitt óskaddað.

2. Mós. b. 20, 17. Drottinn sagði: Þú átt ekki að girnast hús náúnga þíns.

b) Einginn má stela frá sínum náúnga, eður leynilega gjöra hann viðskila við neitt af því sem hann á, móti vilja hans og vitund.

2. Mós. b. 20, 15. Drottinn sagði: Þú átt ekki að stela.

c) Einginn má ræna eður taka með ofríki frá sínum náúnga, það sem honum tilheyrir.

1 Kor. 6, 10. Þjófar og ræníngjar skulu ekki fá guðs ríki.

d) Einginn má svíkja sinn náúnga, eður draga undir sig nokkuð af því, sem honum tilheyrir, með undirhyggju og vèlum, svo sem með rángri vog eða mælir, ónýtum varníngi, okri, eður öðrum þvílíkum svikum og prettvísi.

1 Tess. 4, 6. Einginn svíki eður ásælist bróður sinn í viðskiptum, því drottinn er sá, sem hefnir alls þvílíks. Orðsk. b. 11, 1.

e) Einginn má lokka fólk eða fè með óleyfilegum hætti frá sínum náúnga honum til skaða, hvorki með hótunum nè vèlum.

2. Mós. b. 20, 17. Drottinn sagði: Þú átt ekki að girnast þíns náúnga ektakvinnu, ellegar hans þjón, ellegar hans þjónustukvinnu, ellegar hans uxa, ellegar asna, ellegar nokkuð, sem heyrir þínum náúnga til.

§. 2. a) Vèr eigum að láta náúnga vorn njóta rèttar í öllum hlutum, og eingan veginn gjöra honum órètt, hvert sem hann er ríkur eða fátækur, æðri eða lægri stèttar, þar eð bæði guðs orð og skynsemi vor banna oss

að gjöra það öðrum, sem vèr ekki viljum þeir gjöri oss.

Matt. 5, 20. Jesús sagði: Nema yðar rèttlæti taki mikið fram skriptlærðra og Faríseanna, þá kunnið þèr eingan veginn að koma inn í himnaríki. Matt. 7, 12. Es. 1, 17.

b) Hver, sem á yfir öðrum að segja, má ekki vanbrúka makt sína, til að undirþrykkja eður skaða þá; miklu heldur á hann að brúka hana þeim til hjálpar og aðstoðar.

Orðsk. b. 14, 31. Hver sem leggst á lítilmagnann, sá óvirðir þann, sem skapaði hann, en sá heiðrar skaparann, sem miskunar sig yfir fátækan.

c) Vèr megum eingan veginn innihalda þeirra tilhlýðilegum launum, sem erviða fyrir oss, heldur eigum vèr að gefa þeim í rèttan tíma það þeim tilheyrir.

Jak. 5, 4. Sjáið, laun verkamannanna og þeirra, sem yðar akurlönd hafa uppyrkt, sem hafa af yður verið innihaldin, hrópa, og sláttumannanna mikla kvein er komið til drottins Sebaots eyrna.

d) Vèr eigum að bæta vorum náúnga að fullu, ef vèr upp á nokkurn máta höfum ásælzt hann, eða gjört honum skaða.

1 Sam. 12, 3. Spámaðurinn Samúel gekk fram fyrir fólkið og sagði: Hèr em eg, svarið nú á móti mèr fyrir drottni og hans smurða: hefi eg tekið frá nokkrum manni hans uxa eða asna? hefi eg sýnt nokkrum manni ofríki eða órètt? eða hefi eg þegið mútu, og látið þannig blinda mín augu? Sè svo, skal eg skila því aptur. Lúk. 19, 8. Esek. 33, 15.

e) Vèr eigum ekki að misunna náúnga vorum þeirra gæða, sem guðs forsjón hefir látið honum hlotnazt, heldur gleðjast af hans velgengni.

Jak. 3, 16. Hvar sem öfund og deilur eru, þar er vanskikkan og öll íll viðskipti.

f) Vèr megum ekki ljúga að vorum náúnga, eður innbirla honum ósannindi, af hverjum annaðhvert hann sjálfur eða aðrir kynnu að komast í ýmisleg vandræði.

Ef. 4, 25. Afleggið lygar, en talið sannindi hver við sinn náúnga, því vèr erum hver annars limur.

§. 3. a) Vèr megum eingan veginn skerða æru náúnga vors, heldur þar á móti, að því leyti sem í voru valdi stendur, með öllum leyfilegum hætti leitast við, að hann nái allri

þeirri virðíngu, sem hann á skilið; því gott mannorð og rykti eru mikil gæði í þessu lífi, og öldúngis ómissandi, ef oss á vel að gánga í voru embætti, stètt og öðru því oss við kemur.

Róm. 13, 7. Svo gefið nú öllum, hvað þèr eruð þeim skyldugir — þeim heiður, sem heiður heyrir. 1 Pèt. 2, 17.

b) Vèr megum ekki baktala eður ljóstra óhróðri upp um vorn náúnga, og þar með skerða hans virðíngu.

Jak. 4, 11. Hallmælið ekki hver öðrum, bræður mínir, því hver sem hallmælir bróður sínum og álasar honum, sá hallmælir lögmálinu og álasar því.

c) Vèr megum ekki dæma ílla um náúnga vorn, meðan hann ekki lætur sitt vonda hjartalag í ljósi með opinberum íllverkum.

Matt. 7, 1—3. Jesús sagði: Dæmið ekki hart, svo þèr verðið ekki hart dæmdir, því með þeim sama dómi, sem þèr aðra dæmið, munuð þèr sjálfir dæmdir verða; og með þeim sama mælir, sem þèr mælið út, skal yður inn aptur mælt verða. En því sèr þú flísina, sem er í þíns bróðurs auga, en að vaglinu, sem er í sjálfs þíns auga, gætir þú ekki?

d) Vèr eigum ekki að auðsýna náúnga vorum forakt, hvorki í orðum nè viðmóti, hversu lítilmótlegur sem hann er eður auðvirðilegur.

Matt. 18, 10. Jesús sagði: Sjáið til, að þèr ekki forsmáið neinn af þessum smælíngjum. Orðsk. b. 14, 21.

e) Vèr eigum ekki að bera út bresti vors náúnga, heldur miklu fremur þegja yfir þeim, og heldur afsaka en áfella hann, þegar hann er lastaður af öðrum.

1 Pèt. 4, 8. Um fram alla hluti, hafið stöðugan kærleika innbyrðis, því kærleikurinn hylur margar syndir. Orðsk. b. 10, 12.

§. 4. a) Þegar náúngi vor er nauðstaddur, eigum vèr að láta oss vera annt um að hjálpa honum, og gjöra allt, sem oss er mögulegt, til að gjöra hans mæðu lèttari og koma í veg fyrir hans eyðileggíngu, þar eð oss má til hugar koma, að einginn veit, nema sama neyð kynni oss líka að höndum bera, og vèr þá gjarnan vildum, að aðrir hjálpuðu oss.

Hebr. 13, 16. Gleymið ekki að gjöra gott og útbýta, því þær fórnir þóknast guði vel.

b) Sèrhver kristinn er, eptir Krists dæmi og

hans vegna, skuldbundinn að hjálpa þeim, sem eru sannarlega nauðlíðandi, og annaðhvert vegna heilsubrests eður elli ekki geta sjálfir leitað sèr atvinnu; eða þeim, sem með allri sinni atorku ekki geta unnið nægilega fyrir sèr og sínum; eða þeim, sem á ómaga aldri eru munaðarlausir.

Matt. 25, 35—40. Á dómsdegi mun Jesús opinberlega segja þeim guðhræddu til hróss og upplífgunar: Húngraður var eg, og þèr gáfuð mèr að eta; þyrstur var eg, og þèr gáfuð mèr að drekka; gestur var eg, og þèr hýstuð mig; nakinn var eg, og þèr klædduð mig; sjúkur var eg, og þèr vitjuðuð mín; í fángelsi var eg, og þèr komuð til mín. Það sem þèr gjörðuð einum af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjörðuð þèr mèr. Es. 58, 7. Orðsk. b. 19, 17. Róm. 12, 13. 15.

c) Iðjulausir húsgángsmenn og betlarar, sem hafa krapta til að leita sèr atvinnu með leyfilegum hætti, en nenna því ekki, eiga ekki að fá ölmusu, heldur á að þrýsta þeim til almennilegrar vinnu.

2 Tess. 3, 10—12. Vèr sögðum yður svo fyrir, að sá, sem ekki vill vinna, ætti ekki

heldur mat að fá; en vèr höfum frètt, að sumir lifi í óskikki hjá yður, sem ekkert vinna, en gjöra óþarfa. Í drottins vors Jesú Krists stað skipum vèr þvílíkum og áminnum þá, að þeir sèu kyrrir við vinnu sína, og hafi sjálfir fyrir sèr.

d) Vèr eigum án yfirdrepskapar að samhryggjast með vorum náúnga, hughreysta og uppörfa hann og liðsinna honum með allri þènustusemi.

1 Tess. 5, 14. Huggið ístöðulitla, aðstoðið veika, umlíðið hver annan. Róm. 12, 15.

e) Ef vor náúngi verður sundurþykkur við aðra, eigum vèr að leggja allt kapp á að sætta þá, koma forlíkun á, og þannig afstýra þeim skaða, sem annars hefði máske þar af hlotizt.

Matt. 5, 9. Jesús sagði: Sælir eru þeir sem friðinn semja, því þeir munu guðs börn kallaðir verða. Orðsk. b. 12, 10.

Merk: Vor skylda í tilliti til góðs mannorðs og fjármuna vors náúnga, er í stuttu máli framsett í sjöunda, áttunda, níunda og tíunda boðorði Fræðanna.

---

## D) Um skylduna í sèrhverri stètt.

Auk þeirrar almennilegu skyldu, sem á manneskjunum liggur, að því leyti sem þær eru manneskjur, eru líka til fleiri sèrdeilislegar skyldur, sem þeim upp á leggjast hverri út af fyrir sig, eptir því kalli og embætti, sem guð hefir þær í sett.

1 Pèt. 4, 11. Ef nokkur hefir embætti, sá þjóni eptir þeirri orku, sem guð gefur honum, svo að í öllum hlutum verði guð dýrkaður fyrir Jesúm Krist.

---

### I. Ektamaður og ektakvinna.

§. 1. Eptir guðs boði á einn maður að lifa í hjónabandi með einni ektakvinnu; eiga þau að hafa hreinan kærleika hvert til annars, bera jafnan umhyggju hvert fyrir annars tímanlegri og eilífri velferð, biðja hvert fyrir öðru, og lifa í ævarandi einíngu, uns dauðinn aðskilur þau.

Matt. 19, 4—6. Jesús sagði: Hafið þèr ekki lesið, að sá sem í upphafi skapaði manninn, hann skóp einn mann og eina konu, og sagði:

fyrir því skal maðurinn yfirgefa föður og móður, og vera hjá eiginkonu sinni, og þau tvö skulu verða eins og að einni manneskju. Hvað guð hefir samteingt, það má manneskjan ekki sundurskilja.

§. 2. Maðurinn á einkanlega að elska sína ektakvinnu eins og sjálfan sig, virða hana, vera henni trúr, sjá fyrir hennar atvinnu, ráða henni heilt, og umbera bresti hennar með kærleika.

Ef. 5, 28. Mennirnir eru skyldugir að elska þeirra eiginkonur eins og sinn eiginn líkama: hver sem elskar eiginkonu sína, hann elskar sjálfan sig.

1 Pèt. 3, 7. Þèr ektamenn, búið saman við yðar eiginkonur með skynsemi, eins og þær, sem eru breyskari skepnur, og auðsýnið þeim virðíngu eins og þeim, sem líka eru samerfíngjar þeirrar náðar, að fá eilífa farsæld.

Hebr. 13, 4. Hjúskapurinn á heiðarlegur haldinn vera hjá öllum, og hjónasængin óflekkuð, en frillulífismenn og hórkarla mun guð straffa.

§. 3. Konan á sèr í lagi að elska sinn ektamann með innilegri velvild, vera honum trú og hlýðin af kærleika, stjórna innan

húss með kostgæfni og forsjálni, og auk þess vera honum ráðholl og þènustuviljug.

Ef. 5, 22. 23. Þèr konur, verið yðar eiginmönnum undirgefnar eins og drottni, því maðurinn er kvinnunnar höfuð, eins og Kristur er safnaðarins höfuð.

Tít. 2, 4. 5. Postulinn Páll vill láta kenna úngum konum að elska þeirra ektamenn og börn, og að þær sèu skírlífar, siðsamar, umsjónarsamar, góðlyndar og bændum sínum undirgefnar, svo guðs orð verði ekki fyrir lasti.

---

## II. Foreldrar og börn.

§. 1. a) Foreldrarnir eiga að uppala börn sín til guðhræðslu, svo þau læri frá barnæsku að þekkja, elska og heiðra guð, líka að varast syndir og lesti, því þeir eru guði andstyggilegir, en stunda eptir dyggðum og mannkostum, því þeir þóknast guði; svo eiga börnin að venjast til að setja sína von og traust einúngis til guðs náðar og miskunsemi vegna Jesú Krists.

Ef. 6, 4. Þèr feður, ertið ekki yðar börn til reiði, heldur alið þau upp með aga og umvöndun til drottins.

b) það heyrir líka til góðs uppfósturs, að börnin venjist til iðni, sparsemi, þrifnaðar, auðsveipni og til að fylgja sannleikanum án yfirdrepskapar. Foreldrarnir eiga að gánga undan þeim með góðum eptirdæmum, og aldrei láta hjá líða nauðsynlega hirtíngu, þegar þau ekki vilja hlýða þeirra áminníngum.

Orðsk. b. 13, 24. Hver sem hefir ást á barni sínu, agar það snemma. 1 Sam. 3, 10—14. 4, 12—22.

§. 2. Börnin eiga að heiðra foreldra sína og hlýða þeim í öllu góðu, elska, þakka og þjóna þeim, og vera þeim til gleði með góðu og siðsamlegu framferði.

2. Mós. b. 20, 12. Drottinn sagði: Heiðra föður þinn og móður þína, svo þú lifir leingi í landinu.

Ef. 6, 1—3. Þèr börn, verið hlýðin yðar foreldrum drottins vegna, því þetta er rètt: heiðra föður þinn og móður; það er hið fyrsta boðorð, sem fyrirheiti er lagt við: svo þèr vegni vel og þú megir lifa í landinu. 2 Sam. 18, 6—18. Orðsk. b. 23, 22. 25.

## III. Hússbændur og þjónustufólk.

§. 1. a) Hússbændur og matmæður eiga að bera umhyggju fyrir velferð síns þjónustufólks, og helzt með góðu halda því til að vera auðsveipið, sem og iðið og reglufast í því sem það á að gjöra. Þau skulu einnig gefa þeim tilhlýðileg föt, fæði og laun, og ekki gleyma að ala önn fyrir þeirra uppfræðíngu og betrun til sáluhjálpar, og líka veita þeim hjúkrun, einkum þá þau eru veik eða gömul.

Kól. 4, 1. Þèr hússbændur, auðsýnið yðar þènurum hvað rètt og jöfnuður er, og vitið, að þèr einnig hafið herra á himnum.

b) Hvorki má hússbóndi nè hússmóðir breyta illa við sitt þjónustufólk með íllyrðum, eður annari óleyfilegri eða ofríkisfullri aðferð; ekki heldur mega þau reingja það með óviðurkvæmilegri tortryggni, eða herða að því um megn fram, heldur eiga þau að umbera þess breyskleika með þolinmæði.

Ef. 6, 9. Þèr hússbændur, hættið hótunum, og vitið, að yðar herra er líka á himnum, og að hjá honum er ekkert manngreinar-álit.

§. 2. Þjónustufólk á þar á móti að heiðra

og elska sína hússbændur og matmæður, vera þeim hlýðið og trútt, og gjöra verk sitt með iðni og ástundun, án svika eður möglunar, eins og sjálfur guð sjái upp á það.

Tít. 2, 9. 10. Áminn þènarana, að þeir sèu hússbændum sínum undirgefnir, og gjöri hvað þeim geðþekkt er í öllum hlutum: veri ekki svörulir nè sèrplægnir, heldur sýni þeim alla hollustu, svo að þeir prýði lærdóm guðs vors endurlausnara í öllum greinum. Ef. 5, 6. 8.

---

## IV. Yfirvald og undirgefnir.

§. 1. a) Yfirvaldið hefir, eptir guðs orði, rètt til að útheimta hlýðni í öllu því sem þènar til almennilegra nota, og ekki stríðir móti guðs boði.

Róm. 13, 1. 2. Hver maður sè valdstjórninni undirgefinn, því eingin er valdstjórn, nema af guði, og sú valdstjórn, sem er, er af guði tilskikkuð, svo hver sem mótstendur valdstjórninni, sá stendur á móti guðs skipun, en þeir, sem á móti standa, munu yfir sig leiða dómsáfelli.

Post. gb. 5, 29. Þegar höfðíngjar Gyðínganna kröfðust hlýðni í því, sem var á móti góðri samvizku, svöruðu þeir Pètur og Jóhannes: framar ber að hlýða guði en manneskjum.

b) það er skylda yfirvaldsins eptir guðs boði, að vaka yfir undirsátanna velferð, staðfesta hana með góðum lögum, einnig að vernda þá góðu, en refsa þeim vondu, og láta sèrhvern ná rètti sínum án manngreinar - álits.

Róm. 13, 3. 4. Valdstjórnin er ekki góðum verkum, heldur vondum til skelfíngar. Viljir þú ekki vera hræddur við valdstjórnina, þá gjör það, sem gott er, og muntu umbun af henni fá: því hún er guðs þènari þèr til góðs; en ef þú gjörir íllt, þá máttu vera hræddur, því hún ber ekki sverðið forgefins, þar eð hún er guðs þènari, til að straffa þá, sem ílla breyta. 5. Mós. b. 1, 16. 17. Orðsk. b. 22, 22. 23.

§. 2. þeir undirgefnu eiga, vegna guðs, að hlýða yfirvaldinu og þess tilskipun, líka að gjalda svikalaust sínar skyldur og skatta, sem útheimtast til sameiginlegra nota, landsins varnar og nauðsynja; þeir eiga einnig að heiðra yfirvaldið, vera því hollir og auðsveipir, og biðja fyrir því.

Róm. 13, 5—7. það er nauðsynlegt að vera undirgefinn, ekki einúngis vegna straffsins, heldur og fyrir samvizkunnar sakir; því þar fyrir gjaldið þèr og skatt, vegna þess þeir

eru guðs þjónar, sem við þá þènustu eru sífeldlega bundnir. Svo gefið hverjum það sem þèr skyldugir eruð: þeim skatt, sem skatt eiga; þeim toll, sem toll á; þeim ótta, sem ótti tilheyrir; þeim heiður, sem heiður heyrir.

1 Pèt. 2, 13. 14. Verið undirgefnir alls konar rèttu yfirvaldi vegna drottins, hvert sem það er konúnginum, svo sem þeim ypparsta, eður landstjórnurunum, svo sem þeim, hverja hann hefir út sent til hefndar yfir íllvirkjana, en þeim til umbunar, sem gjöra gott. 1 Tím. 2, 1. 2.

---

## V. Kennendur og tilheyrendur.

§. 1. a) Kennendurnir eiga að kunngjöra guðs orð án yfirdrepskapar með allri ástundun, til uppbyggíngar, og áminna og aðvara án manngreinar-álits; þeir eiga einnig að láta sèr innilega vera umhugað, að börnunum sè svo skilmerkilega kennt, að þau hafi gagn af; líka eiga þeir að leitast alvarlega við að efla sinna tilheyrenda framför í sönnum guðs ótta, til eilífrar sáluhjálpar.

Tít. 1, 9. Sá, sem er biskup, kennimaður eða tilsjónarmaður, á að halda fast við þann

vissa lærdóm, svo hann bæði geti áminnt með heilsusamlegri kenníngu, og líka sannfært þá, er á móti mæla. 1 Pèt. 5, 2. 3.

b) Kennendurnir eiga að gánga á undan sínum tilheyrendum með góðu eptirdæmi í lifnaði og umgeingni; vera blíðir og hóglátir, biðja fyrir þeim, og prýða kenníngunu með óstraffanlegu framferði.

1 Tím. 3, 2. 3. Sá, sem er biskup, kennimaður og tilsjónarmaður, á að vera óstraffanlegur, einnar konu eiginmaður, árvakur, hófsamur, siðprúður, gestrisinn, vel fallinn til að kenna öðrum, einginn drykkjumaður, ekki styrjaldarsamur, einkis ósæmilegs ávinníngs gírugur, heldur sanngjarn, ekki þrætusamur, ekki ágjarn.

§. 2. Barna uppfræðendurnir eiga að innprenta í hjörtu þess úngdóms, sem þeim er á hendur falinn, lotníngu fyrir guði og Kristi, elsku til þeirra, útleggja fyrir honum það, sem hann á að læra, og halda honum til ástundunar, hæversku og góðra siða; því að í æskunni á að leggjast grundvöllurinn til manneskjunnar eptirfylgjandi lukku og velgeingni um tíma og eilífð.

Orðsk. b. 22, 6. Kenn þeim únga þann veg, sem hann á að gánga áfram til dyggða og ráðvendni, og þegar hann eldist, mun hann ekki af honum víkja.

§. 3. Tilheyrendurnir eiga að auðsýna laungun eptir guðs orði, og trúlega fylgja sinna kennenda áminníngum, sem á því eru byggðar; einnig veita þeim alla virðíngu, elska þá, og gjalda góðfúslega það, sem þeir eiga að hafa til síns sæmilegs uppheldis.

Hebr. 13, 17. Hlýðið yðar kennifeðrum og látið að orðum þeirra, því þeir vaka yfir sálum yðar, svo sem þeir, er reikníng eiga að standa, svo þeir geti gjört það með gleði, en ekki með andvörpun, því þar hafið þèr ekki gott af.

Gal. 6, 6. Sá sem fræðist í orðinu, hann býti hinum alls konar gæðum, sem uppfræðir hann. 1 Tess. 5, 12. 13.

Merk: Foreldra og barna, hússbænda og hjúa, einnig yfirvalds og undirgefinna skylda, hvers við annað innbyrðis, er í stuttu máli framsett í fjórða boðorði Fræðanna og í hússtöflunni, hvar líka er talað um skyldu kennenda og tilheyrenda. Í sjötta boðorðinu og í hússtöflunni talast greinilega um skylduna í hjónabandinu.

# Sjöundi kapítuli.

## Um þau meðöl, sem styrkja trúna og efla guðhræðsluna.

---

### I. Guðs orð.

§. 1. Guð hefir látið kenna oss í sínu orði, um allt sitt ráð og sinn vilja oss til frelsunar og betrunar; en þetta hans orð er bæði að finna í gamla og nýa testamentinu.

Hebr. 1, 1. Eptir að guð forðum optsinnis og upp á margan máta hafði látið spámennina tala til forfeðranna, þá hefir hann á þessum síðustu tímum látið soninn tala til vor.

Jóh. 17, 8. Jesús sagði í bæninni til síns himneska föðurs: þau orð, er þú gafst mèr, þau gaf eg mínum lærisveinum, þeir hafa þau og meðtekið, og þekkja sannarlega, að eg er af þèr útgeinginn, og þeir trúa því, að þú hafir út sent mig.

Merk: a) Jesús hafði lofað sínum lærisveinum, að senda þeim heilagan anda, sem skyldi fræða þá um alla hluti, og minna þá á allt það, sem hann hafði kennt þeim. Jóh. 14, 26. Þetta skeði líka á fyrsta hvítasunnudegi eptir hans

himnaför, þegar þeir allir, uppfylltir af heilögum anda, tóku til að tala útlend túngumál, eptir því sem andinn inngaf þeim. Post. gb. 2, 4.

b) Vèr þurfum ekki að nýu að uppfræðast um guðs ráð og vilja með neinslags nýrri opinberun, því það guðs orð, sem vèr höfum, inniheldur allt hvað vèr í því tilliti viðþurfum. Post. gb. 20, 20. 21.

c) Þótt einhver nú segði, að hann hefði öðlast nokkra nýa guðdómlega opinberun, ættum vèr samt eingan veginn að trúa honum, þar eð guð hefir hvergi lofað að senda nýa spámenn til mannkynsins upplýsíngar. Gal. 1, 8. 9.

§. 2. Það er vor skylda, að rannsaka kostgæfilega guðs orð, til að læra þar af, hvað vèr eigum að varast, og hvers vèr eigum að gæta, því annars mun guð krefja oss til reiknfngskapar fyrir vora vankunnáttu, og þar af fljótandi boðorða-brot.

Sálm. 119, 9—11. Davíð spyr: Hvernig getur æskumaðurinn geingið sinn veg óstraffanlega? En hann svarar sèr sjálfur: Með því að breyta eptir þínum orðum, drottinn. — Eg geymdi þitt orð í mínu hjarta, svo eg syndgaði ekki á móti þèr.

Merk: þegar vèr höfum tómstundir frá vinnu

vorri, væri gott að vèr læsum daglega nokkra stund í ritníngunni. En á sunnudögum og öðrum helgum, finnur sú kristin manneskja, sem elskar guðs orð, hæglega tækifæri til að lesa það, og er það ætíð nytsamlegra að byggja trú sína á eigin rannsókn, eins og þeir í Berróa forðum gjörðu (Post. gb. 17, 11), en að láta sèr einúngis nægja kennendanna sögusögn.

§. 3. a) Í guðs orði koma fram mörg dæmi upp á dyggðir og lesti, sem vèr eigum að taka oss til eptirþánka, þar þau eru, eptir guðs vilja, uppskrifuð oss til eptirdæmis og viðvörunar.

Jak. 5, 10. Takið spámennina, sem til yðar hafa talað í drottins stað, til eptirdæmis upp á að líða íllt, og að vera þolinmóðir. Hebr. 6, 12. 1 Kor. 4, 16.

2 Pèt. 2, 6. Drottinn lagði borgirnar Sódóma og Gómorra í ösku, fordæmdi til eyðileggíngar, og setti til fyrirmyndar fyrir þá, sem eptir á mundu lifa óguðlega.

b) Einkanlega eigum vèr að gefa gætur að Jesú Krists, vors endurlausnara, heilaga líferni, og ætíð hafa hans dæmi fyrir augunum að breyta eptir.

Matt. 11, 29. Jesús sagði: Lærið af mèr, því eg em hógvær, og af hjarta lítillátur.

1 Pèt. 2, 21. Kristur hefir einnig liðið fyrir yður, og yður eptirdæmi eptirlátið, að þèr skylduð feta í hans fótspor.

Merk: Jesús Kristur getur ekki verið oss til eptirdæmis að því leyti, sem hann er guðs sonur, kominn í heiminn til að endurleysa syndarana, og með kraptaverkum staðfesta, að hann væri af guði sendur, líka og gaf sig sjálfur í dauðann til friðþægíngar-offurs fyrir allar veraldarinnar syndir; en vèr eigum að kappkosta að líkjast honum í öllum þeim dyggðum, sem eru samkvæmar voru ástandi, og ekki yfirgánga mannlega krapta.

§. 4. a) Að hafa guðs orð kostgæfilega um hönd, heyra það með andakt og viljuglega læra, er hið rètta meðal, með hverju sannkristin manneskja getur farið æ meir og meir dagvaxandi og orðið staðföst í dyggð og guðhræðslu, með samverkandi heilags anda náð.

2 Tím. 3, 16. 17. Öll ritníngin er innblásin af guði, og nytsamleg til lærdóms, til sannfæríngar, til leiðrèttíngar, til uppfræðíngar í ráðvendni, svo að guðs maður sè algjör, og til alls góðs verks hæfilegur.

b) Vor skynsemi fær hvað af hverju meiri og meiri þekkíngu af guðs orði til andlegrar og ávaxtarsamrar upplýsíngar.

2 Tím. 3, 15. Þú kannt heilaga ritníngu, sem getur uppfrætt þig til sáluhjálpar með trúarlærdóminum um Jesúm Krist. Jóh. 5, 39. Sálm. 119, 104. 105.

c) Vor vilji á kröptuglega að hneigjast af þeim mörgu og dýrmætu áminníngum og aðvörunum, sem finnast í guðs orði, til að forðast íllt, en stunda eptir því, sem gott er; líka uppörfast til að gjöra með allri ástundun það sem oss byrjar.

Lúk. 8, 15. Jesús sagði: Þeir sem orðið heyra, og geyma það í góðu og siðsömu hjarta, færa ávöxt með stöðuglyndi. 8, 21.

d) Vèr getum, hvernig sem ástatt er fyrir oss, fundið huggun og rósemi af guðs orði, sem inniheldur gæzkuríkustu loforð um guðs náð og blessun Krists vegna.

Jóh. 17, 13. Jesús sagði í bæninni til síns himneska föðurs: Þetta tala eg í heiminum, svo að mínir lærisveinar hafi af mèr fullan fögnuð með sjálfum sèr. Sálm. 19, 9. 119, 24. 92.

Merk: Um rèttilega brúkun guðs orða, er í stuttu máli talað í fyrstu bæninni í Fræðunum.

---

## II. Árvekni og bæn.

§. 1. Vèr eigum gaumgæfilega að vaka yfir hugrenníngum vorum og girndum, þar vort eðli er breyskt, en freistíngarnar eru margar, svo eingin heimugleg lystíng til ílls geti að óvörum feingið yfirhönd hjá oss; líka eigum vèr iðuglega og nákvæmlega að halda reikníng við sjálfa oss um vorn lifnað og framferði.

Matt. 26, 41. Jesús sagði: Vakið og biðjið, svo þèr fallið ekki í freistni; andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt.

2 Kor. 13, 5. Rannsakið yður sjálfa, hvert þèr eruð sanntrúaðir, reynið yður sjálfa.

§. 2. a) Guð vill, að vèr skulum iðuglega biðja, og er það sjálfum oss til gagns, því ekki þurfum vèr að minna hann á neitt með vorri bæn, þar eð hann veit fyrir fram bæði hvers vèr viðþurfum, og líka hvernig bezt verði ráðin bót á því.

Lúk. 18, 1. Jesús sagði: Þèr eigið jafnan að biðja og ekki að þreytast. Matt. 7, 7. 1 Tess. 5, 17.

b) Bænin á að vera oss meðal, bæði til að styrkja vora elsku og traust á guði, og til að

snúa vorum huga frá hègóma veraldarinnar; bænin gefur oss undir eins krapta til að standa á móti freistíngunum, og til að bera vorar þjáníngar með þolinmæði.

Fil. 4, 6. 7. Verið ekki hugsjúkir, heldur látið í öllum hlutum yðar bænir með þakklæti koma fyrir guð í beiðni og ákalli; þá mun friður guðs, sem meiri er, en nokkur kann að þeinkja, vegna Jesú Krists, vernda yðar hjörtu og hugrenníngar.

Merk: Guð hefir ekki tiltekið, hvað opt hver kristinn maður á að biðja, en ef hann elskar guð einlæglega, verður það ætíð hans innilegasta gleði, að útausa sínu hjarta fyrir guði með vonarfullri bæn, hve nær og hvar helzt sem honum gefst færi á. Bæði kvöld og morgna höfum vèr tíma og tækifæri til þess, líka optar um daginn, miðt í vinnu vorri.

§. 3. a) Vèr megum biðja guð um allt það góða, sem hann hefir í sínu orði lofað að gefa oss, og sem er bæði sálu og líkama nauðsynlegt; en af jarðneskum hlutum eigum vèr sèr í lagi að biðja hann um góða heilsu og daglegt brauð, heiður í voru standi, frið við vorn náúnga og blessun í vorri löglegri stètt.

Orðsk. b. 30, 8. Agúr bað: Gef mèr hvorki

fátækt nè auðæfi, en láttu mig hafa mitt afskamtað uppheldi.

Matt. 7, 7. Jesús sagði: Biðjið, og mun yður gefast; leitið, svo munuð þèr finna; knýið á, og mun fyrir yður upplokið verða.

b) Sèr í lagi eigum vèr að biðja guð um þau andlegu gæði, sem tilheyra vorri sáluhjálp; það er: um fyrirgefníngu syndanna, styrk í trúnni og voninni, vit og krapta til að breyta eptir hans vilja, megn til að standa á móti öllum syndsamlegum tilteygíngum, um góða samvizku og sáluhjálplega endalykt.

Lúk. 11, 13. Jesús sagði: Ef þèr, sem vondir eruð, kunnið að gefa börnum yðar góðar gáfur, hversu miklu fremur mun faðirinn á himnum gefa þeim heilagan anda, sem hann þar um biðja. Kól. 1, 9—11.

Merk: a) Þegar Jesú lærisveinar beiddu hann að kenna sèr að biðja, sagði hann: Þegar þèr biðjið, þá segið: Faðir vor, þú sem ert á himnum: helgist þitt nafn; til komi þitt ríki; verði þinn vilji, svo á jörðu, sem á himni; gef oss í dag vort daglegt brauð; og fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vèr og fyrirgefum vorum skuldunautum; og leið oss ekki í freistni, heldur frelsa oss frá íllu: því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin, að eilífu, amen.

b) Drottinleg bæn, Faðir-vor, inniheldur í stuttu máli allt það, sem hver ein kristin manneskja ætíð á að biðja um og afbiðja, bæði í tilliti til sinnar andlegu og líkamlegu velferðar. Þessi bæn kann í stuttu máli þannig að útskýrast.

Faðir vor, þú sem ert á himnum; það er: þú allrahæsti, eilífi og almáttugi veraldarinnar skapari og herra, sem elskar þínar manneskjur lángtum heitar, en beztu feður á jörðunni geta elskað sín börn.

Helgist þitt nafn; það er: kenn oss að auðsýna í verkunum, að vèr viðurkennum þig eins fullkominn og áköllunar-verðugan, eins og þú í sannleika ert.

Tilkomi þitt ríki; það er: lát þíns sonar Jesú Krists náðugu stjórnun, syndugu mannkyni til upplýsíngar og frelsis, meir og meir útbreiðast og koma til góðs á jörðunni.

Verði þinn vilji, svo á jörðu, sem á himni; það er: gef oss náð, að vèr sýnum hèr á jörðunni, að vèr sèum reiðubúnir, og oss lángi til að hlýða þèr í öllum hlutum, eins og þínir þènarar hlýða þèr á himnum.

Gef oss í dag vort daglegt brauð; það er: gef oss svo mikið af tímanlegum gæðum til lífsins nauðþurftar dag hvern, eins og þú sèr að oss er gagnlegast til vorrar andlegu og eilífu velferðar.

Fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vèr og fyrirgefum vorum skuldunautum; það er: straffa oss ekki eptir maklegleikum, heldur fyrirgef

oss, vegna þíns sonar, vor mörgu misbrot, eins og vèr viljum gjarnsamlega fyrirgèfa þeim sem oss á móti brjóta.

Og leið oss ekki í freistni; það er: lát oss aldrei yfirbugast af þeim freistíngum, sem að oss koma, heldur hjálpa oss til að stríða á móti þeim.

Heldur frelsa oss frá íllu; það er: varðveit oss frá öllu því, sem getur orðið oss að skaða á sálu eður líkama.

Því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu; það er: þú einn ræður fyrir allri vorri velferð, og ert máttugur til að efla hana; því skal líka lof og heiður fyrir allt það góða, sem vèr hljótum, tilheyra þèr einum.

Amen; það er: já, vissulega mun það ske, sem vèr biðjum þig um, og þú sèr að oss er þènanlegt.

c) Ef vèr eigum að biðja með bæninni „Faðir-vor“ oss til gagns, þá verðum vèr með stöðugum eptirþánka, að gæta að meiníngunni í orðunum, og lesa þau með hjartanlegri andakt. Það er því hneykslanleg misbrúkun, að lesa þessa bæn án umþeinkíngar og fyrir siðasakir. Nær væri að lesa hana sjaldnar, svo andaktin betur gæti viðhaldizt. Matt. 6, 7. 8.

§. 4. Þegar vèr biðjum guð um tímanleg gæði, eigum vèr að fela hans þægilegum vilja á vald, að hvað miklu leyti hann vilji bæn-

heyra oss, þar það máske getur verið sjálfum oss eður öðrum til gagns, að vèr öðlumst ekki það, sem vèr biðjum um; eður vèr kynnum að vanbrúka það, sjálfum oss eða öðrum til skaða.

Róm. 8, 26. Vèr höfum ekki vit á, hvers vèr eigum að biðja. Jak. 4, 2. 3.

Jak. 4, 3. Þèr biðjið og öðlist ekki, af því þèr biðjið ílla, til þess að þèr getið sóað því í yðar býlífi.

Merk: Þegar hinn veiki, sem biður um heilbrigði, eður hinn fátæki, sem biður um að sèr vegni betur, og fleiri þess háttar, ekki bænheyrast, mega þeir þar fyrir ekki þeinkja, að bænin sè gagnslaus. Þeir eiga miklu heldur að vera fullvissir um, að guð, eptir hans speki, sèr þeim þènanlegra, að þeir fái ekki það þeir umbiðja; eiga þeir því eingu að síður að halda áfram með bænina til guðs, svo að þeir venjist því meir til að hlýða honum og gefa sig undir hans vilja.

§. 5. Vèr eigum að biðja fyrir vorum náúnga með sömu alvörugefni og sama hjartalagi eins og fyrir sjálfum oss, til merkis um, að vèr elskum hann, og einlæglega samgleðjumst af hans velgeingni, og guð mun ekki láta vorn góða tilgáng verða ólaunaðan.

1 Tím. 2, 1—3. Fyrst af öllu er, að eg áminni, að gjörast skuli óskir, bænir, fyrirbænir og þakkargjörð fyrir öllum mönnum, fyrir konúnginum og öllu yfirvaldi, svo vèr mættum hafa spakt og rósamt líferni í allri guðrækni og siðsemi, því það er gott, og líka guði þóknanlegt. Jak. 5, 16.

§. 6. Ef vèr eigum að geta beðið með þeim hætti, sem guði þóknast, megum vèr ekki láta vorar hugrenníngar hvarfla híngað og þángað, heldur snúa þeim til guðs alleina, og með auðmýkt frambera vorar nauðsynjar fyrir hann, með stöðugu trausti á Jesú Krists forþènustu og fyrirbón, án þess að reiða oss á vorn eiginn verðugleika; þar að auki eigum vèr að útrýma úr hjarta voru öllu hatri til náúngans.

Jóh. 17, 20. Jesús sagði í sinni bæn til síns himneska föðurs: Eg bið ekki einúngis fyrir þessum mínum lærisveinum, heldur einnig fyrir þeim, sem munu trúa á mig fyrir þeirra orð. Róm. 5, 1—2.

Mark. 11, 25. Jesús sagði: Nær þèr standið og biðjizt fyrir, þá fyrirgefið, ef þèr hafið sök móti nokkrum, svo að yðar faðir, sem er á himnum, fyrirgefi yður yðar afbrot.

Merk: a) Sá kristinn maður, sem er vel upp-

fræddur, biður helzt með sínum eigin orðum, sem ekki munu skorta hann, þegar hann hugsar alvarlega eptir því, sem hann ætlar að biðja um, og þá hjartað kemst við. En ef vèr viljum brúka þær bænir, [redacted] aðrir hafa gjört, eigum vèr að velja þær, sem eiga við vort ástand, og innihalda það, sem vèr þá sèr í lagi þurfum að biðja um.

b) Formálinn fyrir framan drottinlega bæn í Fræðunum, talar um það trúnaðartraust, sem vèr eigum að hafa til guðs, þá vèr biðjum. Í fjórðu bæninni er talað um þá tímanlegu velgjörnínga, og í fimtu bæninni um þá andlegu, sem vèr eigum helzt að biðja um. Í sjöundu bæninni er líka getið um hið illa, sem vèr eigum einkum að afbiðja.

---

## III. Skírnar-sakramentið.

§. 1. Skírnin er það heilagt verk, sem Kristur hefir boðið að brúka við þá, sem ætla að játast undir hans lærdóm; og má annaðhvert dýfa þeim í vatn, eður ausa því yfir þá, í nafni föðursins, sonarins og þess heilaga anda.

Matt. 28, 18. 20. Jesús sagði: Allt vald er mèr gefið á himni og á jörðu. Fyrir því farið og gjörið allar þjóðir að mínum lærisveinum, og skírið þær til nafns föðursins, sonar-

ins, og þess heilaga anda, og kennið þeim að halda allt sem eg bauð yður, og sjáið, eg er með yður allt til veraldar enda.

Merk: Í heitari löndunum má án heilsuspillis dýfa þeim niður í vatn, sem skírast eiga; en hèr í þessum kaldari löndum verður, heilsunnar vegna, einúngis að yfirausa þá vatni, eins og brúkað var í hinni fyrstu kristni, þegar einhver var skírður á sinni sóttarsæng.

§. 2. a) Með skírninni verður manneskjan limur kristilegrar kirkju, til að verða með heilags anda samverkandi náð hluttakandi í þeim ypparlegu velgjörníngum, sem Kristur hefir oss útvegað.

Gal. 3, 26. 27. Þèr eruð allir orðnir guðs börn af trúnni á Jesúm Krist, því svo margir af yður sem eruð skírðir til að trúa á Krist, þèr hafið íklæðzt Kristó.

Tít. 3, 5. Eptir sinni miskunsemi hefir guð oss hólpna gjört með endurgetníngarlauginni og endurnýúngunni, sem skeður af heilögum anda.

b) Guð veitir oss í skírninni aðgáng til syndanna fyrirgefníngar fyrir Krists sakir, og gjörir oss, svo sem sín elskuleg börn, hluttakandi í sinni föðurlegri elsku; opnar oss einnig veg til gleði og farsældar í tilkomanda eilífu lífi.

Mark. 16, 16. Hver sem trúir og verður skírður, sá mun hólpinn verða, en hver sem ekki trúir, sá mun fordæmast.

§. 3. Með að skírast í nafni föðursins, sonarins og þess heilaga anda, verðum vèr skuldbundnir til að trúa á föður, son og heilagan anda, sem þann einasta sanna guð, er alleina ræður fyrir vorri tímanlegri og eilífri endurlausn og velferð, svo að vèr skulum dýrka hann einan og treysta honum einum, líka heiðra og elska hann, og hlýða honum af öllu hjarta; en hèr af fylgir þá einnig, að vèr skuldbindum oss til að stríða á móti öllum vondum girndum og taka oss vara fyrir að brjóta hans boðorð vísvitandi, en kappkosta að lifa eptir Jesú Krists lærdómi í sönnum guðs ótta.

1 Pèt. 3, 21. Skírnin er ekki burttekt líkamans saurugleika, heldur sáttmáli góðrar samvizku við guð.

Róm. 6, 4. Svo erum vèr þá með Kristi greptraðir í skírninni til dauðans, að líka sem Kristur er uppvakinn frá dauðum fyrir dýrð föðursins, svo eigum vèr að gánga í nýu líferni.

§. 4. Kristur vill, að allir menn verði í

skírninni limir sinnar kristilegrar kirkju, þar þeir eru endurkeyptir með hans dauða; því eiga líka smábörnin eptir hans vilja að skírast.

Mark. 10, 14. Jesús sagði: Leyfið smábörnum til mín að koma og bannið þeim það ekki, þar eð guðs ríki heyrir þvílíkum til. Matt. 28, 19.

Merk: Þau börn, sem deya, áður en þau hljóta skírn, koma samt í guðs ríki, því að Kristur hefur endurleyst þau, og þeim verður ekki tilreiknuð forsómun á skírninni. En hafi foreldrar eða vandamenn af ásettu ráði haldið barninu frá skírninni, þá verður það þeirra ábyrgðar-hluti, vegna þess þeir þar með sýndu, að þeir virtu lítils Krists boðorð.

§. 5. Í konfirmazíóninni eigum vèr sjálfir að ítreka og opinberlega að endurnýa það heilaga loforð, er aðrir gjörðu fyrir vora hönd, þegar vèr hlutum skírn, sem er: að vèr viljum afneita öllum óguðlegleika, trúa á guð föður, son og heilagan anda, einnig auðsýna vora trú með góðverkunum. Til þessa loforðs eigum vèr ætíð alla vora lífstíð að muna, og láta það síféldlega minna oss á þá tryggð og hollustu, sem vèr erum guði um skyldug-

ir, svo vor trú og ráðvendni ekki spillist af holdlegu gjálífi.

Opinb. b. 2, 10. Jesús sagði: Vertu trúr allt til dauðans, svo skal eg gefa þèr lífsins kórónu.

Ef. 5, 25—27. Kristur elskaði söfnuðinn, og gaf sig sjálfan út fyrir hann til að helga hann, þegar hann með orðinu hreinsaði hann í vatns-baðinu, svo að hann útvegaði sjálfum sèr dýrðlegan söfnuð, sem hefði eingan blett nè hrukku, eður neitt þess háttar, heldur væri heilagur og óstraffanlegur.

Merk: Svo opt sem vèr endurminnumst skírnarinnar, eigum vèr að uppörfast til nýrrar árvekni og ástundunar í því að laga vorn lifnað eptir Krists lærdómi. Þess vegna, þó skírnin sjálf eigi ekki að ítrekast, er hún samt sífelt ávaxtarsamt meðal handa oss, til að efla vora dyggð og guðhræðslu.

Um skírnina er talað í fjórða parti Fræðanna.

---

## IV. Kvöldmáltíðar-sakramentið.

§. 1. Sú heilaga kvöldmáltíð er það heilagt verk, er Jesús Kristur innsetti, með hverju kristnir menn eiga að eta brauð og drekka vín, og þar með verða hluttakandi í Jesú Krists

líkama og blóði, sem offrað var til forlíkunar fyrir þá, og vegna þeirra synda.

Matt. 26, 26—28. Mark. 14, 22—24. Lúk. 22, 19. 20. 1 Kor. 11, 23—26. Vor herra Jesús Kristur, á þeirri nóttu, sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þakkir, braut það og gaf sínum lærisveinum, og sagði: Takið og etið, það er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn; gjörið það í mína minníngu. Sömuleiðis eptir kvöldmáltíðina, tók hann kaleikinn, gjörði þakkir, gaf þeim hann, og sagði: Drekkið allir hèr af, það er kaleikur ens nýa testamentis í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist til fyrirgefníngar syndanna; gjörið þetta, svo opt sem þèr það drekkið, í mína minníngu.

§. 2. a) Með innsetníngu þeirrar heilögu kvöldmáltíðar hafði Jesús þann tilgáng, að styrkja kristna menn í trúnni og uppörfa þá til kostgæfilegrar ástundunar í kristilegu líferni.

Lúk. 22, 19. Jesús sagði: Gjörið það í mína minníngu.

b) Þegar vèr meðtökum kvöldmáltíðar-sakramentið, eigum vèr að minnast Jesú Krists friðþægjandi dauða, oss til huggunar og fullvissu um, að allar vorar syndir sèu oss hans

vegna fyrirgefnar, ef vèr einasta tileinkum oss hans forþènustu með sannri iðrun og lifandi trú.

Lúk. 22, 19. 20. Jesús sagði: þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn — þessi kaleikur er það nýa testamenti í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist.

c) Vèr eigum að láta þá heilögu kvöldmáltíð uppörfa oss til, að vèr með innilegasta þakklæti metum mikils það, að Jesús Kristur leið þúngar kvalir og fórnfærði sig sjálfan í vorn stað, og með því að neyta opinberlega þessarar máltíðar, eigum vèr honum til vegsemdar að auðsýna, að vèr viðurkennum hann sè vor frelsari og sáluhjálpari.

1 Kor. 11, 26. Svo opt sem þèr etið af þessu brauði og drekkið af þessum kaleik, skuluð þèr kunngjöra dauða drottins, þángað til hann kemur.

d) Í því vèr meðtökum brauðið og vínið, komumst vèr í nákvæmustu sameiníngu við Jesúm Krist vorn frelsara, sem gjörir oss hluttakandi í sínum allraheilagasta líkama og blóði, og þar með innsiglar, að vèr sèum meðteknir til þess nýa náðar-sáttmála, hvern hann, sem vor meðalgángari, hefir samið millum guðs og vor.

1 Kor. 10, 16. Sá blessaði kaleikur, hvern vèr blessum, er hann ekki hlutteknìng í Krists blóði? það brauð, sem vèr brjótum, er það ekki hlutteknìng í Krists líkama?

Hebr. 8, 6. Kristur hefir öðlast svo miklu æðra kennimanns-embætti, sem sáttmáli sá er ypparlegri, sökum þess hann er grundvallaður á betri fyrirheitum.

e) þegar vèr minnumst þeirrar órannsakanlegu Jesú Krists elsku, sem í kvöldmáltíðinni verður oss fyrir sjónir sett, á heitasta elska aptur á móti að uppkveikjast í vorum hjörtum; það á líka að knýa oss til að elska hver annan innbyrðis, eins og þá bræður, hverja Kristur hefir alla saman endurleyst.

Jóh. 13, 35. þar af skulu allir þekkja, að þèr eruð mínir lærisveinar, ef þèr elskið hver annan.

1 Kor. 10, 17. Fyrst það er eitt brauð, svo erum vèr allir einn líkami; því vèr erum allir hluttakandi í því eina brauði.

§. 3. það er nauðsynlegt, að vèr prófum sjálfa oss, hvert vèr getum svo sem verðugir gestir geingið til guðs borðs; því þeir einir hafa gagn af sakramentinu, sem meðtaka það verð-

uglega, en hinir óverðugu ávinna sèr þar á móti guðs straungu reiði.

1 Kor. 11, 27—29. Hver sem etur af þessu brauði, eða drekkur kaleik drottins óverðugur, sá verður sekur við drottins líkama og blóð; en hver einn prófi sig sjálfan, og eti svo af brauðinu og drekki af kaleiknum.

§. 4. Þegar vèr viljum rèttilega prófa sjálfa oss, þá eigum vèr:

1) Að rannsaka vort hjartalag í tilliti til Krists og hans friðþægíngar, svo vèr getum vitað, hvert oss, sem iðrandi manneskjum, sýnist mikils umvarða, að finna náð hjá guði einum vegna Jesú Krists og með trúnni á hann.

2) Eigum vèr að rannsaka sjálfa oss, hvert það sè vor einlægur ásetníngur, hèr eptir með alvörugefni að stríða á móti öllum syndsamlegum tillokkunum, og af alúð að vilja fylgja Jesú lærdómi, svo oss fari meir og meir fram í ráðvendni og sönnum guðs ótta.

Sèrhver sá geingur óverðuglega til guðs borðs, sem, eptir það hann þannig hefir prófað sig nákvæmlega, finnur ekki hjá sèr það hugarfar, að hann vilji leita náðar hjá guði með

trúnni á Krist, hafa einlægan ásetníng að betra sig, og láta sèr fara fram í dyggð og guðs ótta.

1 Kor. 2, 2. Eg tók fyrir mig að fara ekki með neinn annan lærdóm, þegar eg var hjá yður, en um Krist og hann krossfestan.

2 Kor. 5, 14. 15. Krists kærleiki þvíngar oss, með því vèr ályktum svo, að fyrst hann einn er dáinn fyrir alla, svo sèu þeir allir dánir; og hann dó fyrir alla, svo að þeir, á meðan þeir lifa, skuli hèr eptir ekki lifa sjálfum sèr, heldur honum, sem fyrir þá er dáinn og upprisinn.

Merk: a) Í skripta-stólnum verðum vèr sèr í lagi áminntir og uppörfaðir til að prófa nákvæmlega sjálfa oss, þegar skriptafaðirinn, með sínum guðlegum fortölum og áminníngum, minnir oss á skyldu vora við Krist, og brýnir fyrir oss, að vèr eigum sífeldlega að kappkosta, að vera dyggðauðugir.

b) það stendur engan veginn í prestsins valdi að fyrirgefa syndirnar, því það er guðs alleina. En presturinn getur einúngis eptir guðs fyrirheitum tilsagt oss og boðað: að guð hafi vissulega fyrirgefið oss vorar syndir vegna Jesú Krists, ef vèr iðrumst þeirra af hjarta og trúum á Krist. þess vegna hafa iðrunarlausir ekkert gagn af að gánga til skripta og altaris, heldur verður þeirra ábyrgðarhluti því þýngri,

þar þeir vanbrúka þetta til að hylja með vonzku sína, og til að gjöra gis að guðs orði.

Um þá heilögu kvöldmáltíð er talað í fimta parti Fræðanna.

---

# Áttundi kapítuli.
## Um mannanna síðasta ástand.

---

§. 1. Þó dauðastundin sè öllum óviss, þá er samt víst, að allir menn, sem á jörðunni lifa allt til veraldarinnar enda, eiga einu sinni að deya, því allir þeir eru syndarar.

Róm. 5, 12. Syndin er af einum manni komin í heiminn, og dauðinn vegna syndarinnar, þannig hefir dauðinn runnið inn til allra manna, því þeir syndguðu allir.

Merk: a) Það er mjög hættulegt og heimskulegt, að skjóta á frest sínum undirbúníngi til dauðans, vegna þess að manneskjan kann ske sè úng eða með góðri heilsu, og kenni sèr einkis meins, því dauðinn kippir mörgum burtu á bezta aldri; svo veit heldur einginn, hvert dauðinn muni koma hastarlega að, eður með aðdraganda; einginn getur heldur fyrirsagt, hvert hann muni fá færi á að

undirbúa sig, þegar hann á hèr við að skilja; því fæstir eru svo öruggir á dauða-stundunni, að þeir geti með alvörugefni og stöðugri umþeinkíngu hugsað um sín sáluhjálpar-efni.

b) Á sóttar-sænginni er tíminn ofnaumur til að fá viðbjóð á þeim löstum og hègómaelsku, sem öptruðu syndaranum, meðan hann var heill og ósjúkur, frá að trúa á Jesúm Krist og elska hann; hugarfarið umbreytist ekki heldur af því, þó manneskjan, meðan háskinn vofir yfir, fyllist upp af hræðslu og kvíða fyrir eymd og kvöl um alla eilífð; því vèr sjáum allt of opt, að þeir, sem með miklu hugar-ángri lofa bót og betrun á sóttar-sænginni, snúa, strax sem þeir eru orðnir heilbrigðir, aptur til síns fyrra syndsamlega lifnaðar, og sýna þar með, að þeirra ángur hafi ekki komið af einlægu hjarta, og að lystin til þess vonda er af laungum vana orðin svo rík í sálunni, að hún getur ekki orðið niðurkæfð, nema með lángvarandi stríði og baráttu.

c) Þar fyrir er ráðlegast, að búa sig undir dauðann frá únga aldri, og stríða strax á móti öllum íllum girndum, undir eins og þær taka til að hreifa sèr; en kappkosta þar á móti að komast með lifandi trú í sameiníngu við Krist, sinn endurlausnara, og fylgja hans eptirdæmi; því eins og óguðlegir forherðast meir og meir, svo þeir, með því að halda á-

fram í syndunum, hafa einga dyggðar og guðhræðslu tilfinníngu, svo styrkjast hinir guðhræddu daglega með samverkandi náð heilags anda af að iðka sig sífeldlega í guðhræðslu, og þannig undirbúa handa sèr frið og fögnuð í samvizkunni, sem er sú stærsta farsæld í þessu lífi; en óguðlegir aptur á móti baka sèr með löstum sínum stærstu kvöl og órósemi. Þegar dauðinn að kemur, eru þeir guðhræddu hughraustir og ókvíðnir, en hinir óguðlegu skelfast, og annaðhvert falla í örvæntíngu, ellegar með þánkaleysi sökkva sèr niður í forherðíngu.

§. 2. Sálin, sem er ódauðleg, fer, strax sem hún er skilin við líkamann, til síns samastaðar, annaðhvert í eilífa gleði, eður eilífar kvalir, eptir því sem manneskjan hefir lifað í þessum heimi vel eður ílla.

Lúk. 23, 43. Jesús sagði við iðrandi ræníngjann á krossinum: Sannlega segi eg þèr: í dag skaltu vera með mèr í Paradís. 2 Kor. 5, 8.

Jóh. 5, 24. Jesús sagði: Hver sem heyrir mín orð og trúir þeim, sem mig sendi, sá hefir eilíft líf, og hann kemur ekki til dóms, heldur hefir hann stígið yfir frá dauðanum til lífsins.

Lúk. 16, 22. 23. Jesús segir í eptirlíkíngunni: Sá fátæki dó og var borinn af einglum í faðm Abrahams. Hinn ríki líka og var

greptraður, en sem hann upphóf sín augu í helvíti, var hann í kvölunum.

§. 3. Á efsta degi skal líkaminn uppvekjast úr duptinu, og samteingjast aptur sálunni; verður hann þá óforgeingilegur.

Jóh. 5, 28. 29. Jesús sagði: Sá tími mun koma, á hverjum allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra guðs sonar raust, og þá munu þeir, sem gott hafa gjört, upprísa til sælu, en hinir til fyrirdæmíngar, sem íllt hafa aðhafzt.

Post. gb. 24, 15. Postulinn Páll sagði: Eg hefi þá von til guðs, að á eptir muni koma upprisa framliðinna, bæði rèttlátra og ránglátra.

1 Kor. 15, 42. Líkama þeirra, sem deya, verður forgeingilegum niðursáð, en hann mun upp aptur rísa óforgeingilegur; honum verður auðvirðilegum niðursáð, en hann mun upprísa vegsamlegur; honum verður niðursáð veikum, en hann mun upp aptur rísa máttugur; náttúrlegum líkama verður niðursáð, en upp aptur mun rísa andlegur líkami.

§. 4. Þær manneskjur, sem verða lífs á jörðunni þegar dómsdagur kemur, deya að sönnu ekki, svo að sál og líkami skiljist að, en þær munu samt umbreytast, svo að þeirra forgeingilegi líkami verður á augabragði óforgeingileg-

ur; eingin manneskja veit, hvenær þessi dagur muni koma.

1 Kor. 15, 51. 52. Sjá, eg segi yður leyndardóm: vèr munum ekki allir sofna, en allir munum vèr umbreytast, og það í vetfángi á einu augabragði, við hinn síðasta lúður-hljóm; því lúðurinn mun gella, og hinir framliðnu munu upprísa óforgeingilegir, en vèr munum umbreytast.

§. 5. Kristur mun með dýrðlegum hætti opinberlega dæma allar manneskjur eptir upprisuna, og auglýsa fyrir öllum, að guðhræddir sèu verðugir til að lifa í vegsemd og fögnuði eilíflega; en óguðlegir þar á móti munu verða fyrir því straffi, sem þeirra íllverk hafa til unnið.

Post. gb. 17, 31. Guð hefir tilsett vissan dag, á hverjum hann ætlar að láta þann mann, sem hann hefir þar til sett, dæma með rèttvísi alla jarðarinnar innbyggjendur; þar um sannfærir guð alla með því, að hann uppvakti þann mann frá dauðum.

2 Kor. 5, 10. Vèr eigum allir að opinberast fyrir Krists dómstóli, svo að hver einn úr býtum beri eptir því, sem hann hefir aðhafzt í líkamans lífi, hvert sem það hefir verið gott eður íllt.

2 Tess. 1, 7. 8. Þegar drottinn Jesús opinberast af himni með sínum eingla-her og logandi eldi,* til að hegna þeim, sem ekki vildu aðhyllast guð, og straffa þá, er ekki voru hlýðugir evangelíó vors drottins Jesú Krists.

Merk: Sérhver sála dæmist strax, eptir að hún er farin út af líkamanum, og verður henni vísað annaðhvert til eilífrar gleði eður eilífra kvala. Hebr. 9, 27. En á síðasta degi, þegar sálirnar eru að nýu orðnar samteingdar líkömunum, mun Kristur sem konúngur og herra samansafna þeim, svo hans réttvísi dómur verði þeim öllum undir eins kunnur, til vitnisburðar um hans stjórnun án manngreinar-álits, og svo þeim sè eingìnn órèttur gjör. Matt. 25, 31—46. Róm. 2, 16.

§. 6. Eilíft líf er það dýrðlega og sælufulla ástand, í hverju guðhræddir menn æfinlega lifa í gleðilegustu sambúð með Jesú Kristi, góðu einglunum og öllum heilögum, án þess að áreitast leingur af nokkurri synd eður sorg, en njóta óumræðilegrar huggunar, friðar og fagnaðar af að skoða guðs dýrð, sem auðsýnir sig í hans mörgu dásemdarverkum, þar þeir einnig lofa og vegsama guð hver með öðrum, og æfa sig í dyggðinni og kærleikanum, eptir guðs vilja.

Matt. 25, 24. Jesús mun segja við þá: Komið híngað, þèr blessaðir af mínum föður, og eignizt það ríki, sem yður er fyrirbúið frá veraldarinnar upphafi.

Jóh. 17, 24. Jesús sagði í bæninni til síns himneska föðurs: Eg vil, að þeir, sem þú gafst mèr, skuli vera hjá mèr, hvar sem eg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mèr.

Hebr. 12, 22. Þèr komið til borgar guðs lifanda, til þeirrar himnesku Jerúsalem, og til margfjölda margra þúsund eingla.

Opinb. b. 21, 4. Guð mun þerra öll tár af þeirra augum, og dauðinn mun ekki leingur vera til, ekki harmur nè kveinan, nè heldur pína mun leingur til vera.

Róm. 2, 10. Heiður, vegsemd og frið skal hver sá öðlast, sem gott gjörir.

§. 7. Fyrirdæmíngin, sem annars kallast eilífur dauði, er það kvalafullt og vonarlaust ástand, í hverju óguðlegir sárlega kveljast af þeirra nagandi samvizku, og hvar þeir, í hinna óguðlegu vondu anda og íllra sálna sambúð, finna til hryggilegustu verkana af sínum fyrri íllgjörðum, þar eð þeirra drottnandi lystir, hverjum þeir þá ekki geta fullnægt, undir eins auka þeim kvöl og pínu.

Matt. 25, 41. Jesús mun segja til þeirra: Farið frá mèr, þèr bölvaðir, í þann eilífa eld, sem búinn er djöflinum og hans árum.

Mark. 9, 47. Jesús sagði: Þeirra ormur deyr ekki, og þeirra eldur slokknar ekki.

Jóh. 3, 36. Hver sem trúir á soninn, sá hefir eilíft líf, en hver sem ekki hlýðnast syninum, skal ekki sjá lífið, heldur varir guðs reiði yfir honum.

Róm. 2, 9. Hrellíngar og harmkvæli munu koma yfir allra þeirra manna sálir, sem íllsku drýgja.

§. 8. Á síðasta degi mun vor heimur forgánga með öllum sínum gæðum; en guðhræddir munu ætíð vera hjá drottni, og með þessari von skulum vèr hughreysta hver annan.

2 Pèt. 3, 10. Dagur drottins mun koma sem þjófur á nóttu, þá munu himnarnir með miklum gný forgánga, en frumefnin af eldi sundurleysast, og jörðin með því, sem í henni er, uppbrenna. 1 Tess. 4, 17. 18.

---

Guði sè lof og dýrð að eilífu, amen.

---

Stutt

# Á [redacted] r i p

af

# Höfuð-lærdómum

## kristilegra trúarbragða.

---

1.

Einn einasti sannur guð er til, sem hefir skapað heiminn, viðheldur og stjórnar honum, til gagns og gleði öllum sínum lifandi skepnum, en sèr í lagi þeim skynsemdarfullu til velferðar.

2.

þessi guð hefir allra stærstu eiginlegleika og er sá allra fullkomnasti [redacted] makt, speki, gæzku, heilagleika og rèttlæti.

3.

Heilög ritníng, [redacted] inniheldur guðs vilja og

ráðstöfun, að svo miklu leyti sem þau sèr í lagi eru manneskjunum við komandi, kennir oss að dýrka guð, sem föðurinn, soninn og þann heilaga anda, er allir hafa eina veru, og sömu guðdómlegu tign.

4.

Manneskjan var í upphafi, þegar guð hafði skapað hana, saklaus og góð, en hún spillti sèr sjálfri, með því að brjóta fríviljuglega móti guðs lögmáli; þar af varð hún syndug og óhæfileg til að taka á móti þeirri sælu, sem guð hafði henni ætlað.

5.

Jesús Kristur, sem er eingetinn sonur þess himneska föðurs, varð manneskja, svo hann gæti endurleyst syndugt mannkyn frá þeirri eymd, sem það hafði með syndinni steypt sèr í. Hann sýndi mönnunum þar fyrir með sinni kenníngu, hvað guð af sinni miskunarfullu elsku hafði ályktað um þeirra frelsun, útvegaði þeim aðgáng til hennar með sinni fríviljugu pínu og dauða, staðfesti líka með sinni upprísu og

himnaför þá vissu, sem hann hafði gefið þeim um eilíft líf. Nú stjórnar hann öllum heiminum ásamt með föðurnum með guðdómlegri makt og veldi, og ber sèr í lagi umhyggju fyrir sinna endurleystra eilífri sáluhjálp.

6.

Sá heilagi andi leiðir oss með Krists lærdómi til apturhvarfs frá syndunum og til trúarinnar á Krist, svo vorar syndir verði oss fyrirgefnar. Hann hjálpar oss einnig til betrunar og framfara í dyggð og guðhræðslu, svo vèr getum orðið hluttakandi í þeirri sáluhjálp, sem Kristur hefir oss útvegað.

7.

Vor trú á Jesúm Krist á að sýna, hvert hún sè kröptug, með því að vèr lifum eptir vorri skyldu bæði við guð, við sjálfa oss og við náúngann, eptir því sem guð og Kristur hafa skipað oss í heilagri ritníngu.

8.

Guði erum vèr skyldugir um, að tilbiðja, óttast og elska hann, hlýða honum og reiða

oss á hann einan, lofa hann, þakka honum og ákalla hann, einnig taka oss vara fyrir öllu því, sem í nokkurn máta stríðir móti þeirri virðíngu, sem vèr eigum honum að veita.

9.

Sjálfum oss erum vèr skyldugir um, að bera tilbærilega umhyggju bæði fyrir sálu vorri og líkama, sem og fyrir vorri tímanlegri velferð, en þó sèr í lagi gæta vor, og varast allt íllt og syndsamlegt háttalag og vana, svo samvizkan hvorki ofþýngist, nè vèr líðum tjón á vorri sönnu velferð; vèr erum þar á mót fullvissir um guðs náð, og getum ætíð með sonarlegu trúnaðartrausti leitað hælis hjá honum, ef vèr kappkostum að verða góðar og dyggðugar manneskjur eptir Jesú lærdómi og eptirdæmi.

10.

Náúnganum erum vèr skyldugir um, að elska hann eins og sjálfa oss, og þess vegna að vera ætíð reiðubúnir til að gjöra það sama við hann, sem vèr kjósa vildum að hann í

líku tilfelli gjörði við oss; en aldrei taka oss neitt það fyrir hendur, sem í nokkurn máta kynni að skerða hans tímanlegu eða eilífu velferð.

11.

Vèr eigum að hafa guðs orð iðuglega um hönd, því það er það bezta meðal til vorrar upplýsíngar og helgunar; líka eigum vèr iðuglega að vegsama og ákalla guð, svo hugur vor þar með uppfyllist af elsku til guðs og laungun eptir að gjöra hans vilja.

12.

Vèr eigum að leggja allt kapp á, að virða mikils og halda vorn skírnar-sáttmála, því með skírninni hefir Kristur látið gjöra oss að limum sinnar kirkju, og gefið oss rètt til sinna dýrmætu velgjörnínga.

Í kvöldmáltíðar-sakramentinu gjörir Jesús Kristur oss hluttakandi í sínum líkama og blóði, til fullvissu um, að vorar syndir sèu oss fyrirgefnar, ef oss af hjarta ángrar, að vèr höfum drýgt þær, og einsetjum oss að láta oss fara fram með trúnni á hann í ráð-

vendni og í vorum kristindómi; þar fyrir eigum vèr líka að brúka þetta sakramenti með hjartanlegri andakt, eptir að vèr áður höfum nákvæmlega og alvarlega prófað sjálfa oss.

13.

Guðhræddra sálir koma eptir dauðann til eilífs lífs og eilífrar sælu í samfèlagi með góðum öndum hjá Kristi sínum endurlausnara; en þá óguðlegir deya, fara þeir í samfèlag vondra anda, og hreppa þar kvalir og ángist, sem er maklegt straff fyrir þeirra íllgjörðir.

14.

Guðs alvísa ráðstöfun hefir tilsett vissan dag, á hverjum þeir dauðu líkamir munu úr sínu dupti uppvekjast og samteingjast þeirra sálum, þegar Kristur mun láta þá alla mæta opinberlega fyrir sínum dómstóli, og þá forgeingur sú veröld, sem nú er.

# Sakramentis bænir.

## Skriptamálin.

Minn kæri, verðugi faðir í Kristi! eg bið yður að heyra mína játníngu, uppörfa mína guðrækni, hugga mig með guðs orði, og svo boða mèr sanniðrandi, kvittun synda minna í Jesú nafni!

Eg aum og syndug manneskja játa almáttugum guði og öllum hans stórmerkjum, en afneita mínum og hans óvinum, synd og öllu óguðlegu athæfi. Líka meðkenni eg fyrir guði og yður, minn kæri faðir! að eg er sekur í óteljandi syndum í gegn mínum guði og skapara. Eg meðkenni, að eg hefi móti hans vilja og boðorðum brotið í þaunkum, orðum og verkum, og þá sjaldan eg hefi rètt einlæglega viljað gjöra það góða, hefir þó jafnan loðað við mig það hið vonda. Æ! þetta ángrar mig nú af hjarta, og vil eg því feginn allra minna

synda iðrast, þeim afláta og við sjá með rèttri trú og trausti til guðs miskunar, fyrir Jesúm Krist minn lausnara. Eg endurnýa nú alvarlega það heit og loforð fyrir guðs alskygna augliti og yður, að láta mèr daglega fram fara í öllu góðu, eptir míns frelsara dæmi, hvers pínu og dauða endurminníngu eg halda vil í dag; guð virðist að gefa mèr náð sína þar til í Jesú nafni, amen!

## Bæn fyrir skriptir.

Rannsaka mig, ó guð, og prófa mitt hjarta! gef mèr að þekkja, hvert eg hefi einlæglega elskað þig, og hvert eg hefi alvarlega látið mèr vera umhugað um minn kristindóm. Opna minn skilníng, svo eg læri rètt að þekkja sjálfan mig, að eg ekki, mèr til skaða, dragi sjálfan mig á tálar í því sem mest á ríður, í mínum sáluhjálpar-efnum, nè gjöri lítið úr syndunum, sem þú hatar. Minn guð! eg vil nú fyrir þínum alskygnu augum rannsaka mitt hjarta og mitt framferði; eg vil ekki fyr neyta holds og blóðs míns frelsara, heldur enn eg með vissu

geti sagt, að eg sè hans sannarlegt barn, er framvegis vilji leitast við að hlýðnast og breyta eptir honum. Gef mèr hèr til aðstoð þíns góða anda, minn guð! eg vil nú gánga fram fyrir þinn þènara, og meðkenna þèr og honum mínar syndir; æ! fyrir þèr fæ eg ekki dulizt; það mun fyrir þínum dómi á síðan opinbert verða öllum einglum og mönnum, hver eg er. Lát mig því, minn góði guð! ekki svíkja sjálfan mig, heldur með hræsnislausu hjarta fram koma fyrir þig í dag og ætíð, amen!

## Bæn eptir skriptir.

Lofa þú drottinn, sála mín! nú em eg þess viss, að guð hefir, fyrir míns frelsara Jesú Krists skuld, fyrirgefið mèr allar mínar syndir, þegar eg að eins efni þau elsku og hlýðnis heit, er eg nú vann mínum skapara; eg hefi ekki annað forþènað enn straff, en guð hefir auðsýnt mèr náð; hans sonur er á krossinum dáinn líka fyrir mig, svo eg mætti lifa. Nú vil eg framvegis, til þóknunar mínum guði og frelsara, sem svo mikið elskaði mig, hata

allar syndir, og í öllu ástunda, að hlýðnast hans boðorðum; þessu hefi eg nú lofað þèr, minn guð og minn frelsari! lát mig aldrei í minni umgeingni gleyma þessu loforði! þá verð eg verðugur borðgestur við míns frelsara kvöldmáltíð í dag; eg fæ þá fullvissu um minna synda fyrirgefníngu sem eg get huggað mig við í lífi og dauða, amen!

## Bæn fyrir bergíngu.

Svo syndugur, svo óverðugur, sem eg er, svo vill þó minn frelsari unna mèr þeirrar náðar, að eg má nú fram koma að hans háborði til að meðtaka þar hans líkama og blóð, svo sem pant og fullvissu um minna synda fyrirgefníngu. Æ, minn guð! gef mèr náð til að kannast við, hversu grunnlaus þessi elska er! guðs sonur, sjálfur föðursins ljómi, hryggist fyrir mínar syndir allt í dauðann; guðs sonur sveitir blóðinu undir minni og alls heimsins synda sekt; guðs sonur lætur sig fjötra, spotta, húðstrýkja, þyrnum krýna og á krossinn negla, til að endurleysa mig, sem var

hans óvinur; guðs sonur leggur lífið út fyrir mig, er sekur var eilífs dauða. Hversu dýru verði em eg keyptur! hversu öldúngis heyri eg, með öllum kröptum sálar og líkama, mínum frelsara til, sem svo heitt hefir elskað mig! með þessum þaunkum vil eg gánga upp að þínu borði, minn guðdómlegi ástvinur! þakklátur yfirvega þína ómetanlegu elsku til mín, og uppörfa með henni sjálfan mig til að lifa þèr hèðan af; styrk mig þar til, minn guð, með þínum anda, í Jesú nafni, amen!

## Bæn eptir bergíngu.

Ó, hversu mikið á eg að þakka þèr, minn frelsari! eg get ekki með orðum útmálað stærð þinnar elsku; eilíflega vil eg elska þig, því þú hefir óútsegjanlega elskað mig. Þèr hefi eg að þakka fyrirgefníngu minna synda, guðs náð, rósemi samvizkunnar og eilíft líf. Lát mig aldrei gleyma þessum ómetanlegu velgjörðum! Hèðan af vil eg flýa og forðast allar syndir, svo eg missi ekki aptur þína náð. Mín æra, mín unaðsemd, mín æðsta sæla sè sú: að elska

þig, hlýða þèr, fylgja þínu dæmi, og í öllum míns lífs athöfnum að gjöra það, sem rètt er og þèr vel þóknast. Veit mèr þar til náð þína og aðstoð, svo megna eg allt fyrir þig, amen!

---

# Ferða bænir.

## Landferðamanns bæn.

Góði guð! þú verndarinn allra þeirra, sem á þig treysta! Í þínu nafni áforma eg nú mína reisu; vertu mín fylgd og minn vegvísari, svo kann mig ekkert íllt að henda. Þèr fel eg mig nú og mitt áform, þú einn kannt að farsæla mín fyrirtæki; vertu mèr nú og jafnan nálægur með náð þinni, og virðstu að greiða hvert mitt spor mèr til heilla. Afvend frá mèr öllum slisum, hættum og ólukku tilfellum, og ber mig svo á þínum höndum, svo eg steyti ekki fót minn við steini. Gef mèr farsællega að útrètta mín erindi í þínum ótta, og eptir þínu boði, mèr og mínum meðbræðrum til nota,

og leið mig svo heilan og glaðværan heim aptur; þá vil eg þakklátur prísa þína gæzku, sem aldrei yfirgefur þá, er öruggir fela þèr sín efni, og í Jesú nafni setja á þig einan trú og von, amen!

## Sjóferðamanns bæn.

Almáttugi guð! þú ert sá vísi og góði höfuðskepnanna herra og undir eins minn faðir! í trausti þinnar náðarríku handleiðslu byrja eg nú, veik og hjálparþurfandi mannskepna, þessa hættusömu sjóferð; þú þekkir bezt þær hættur, sem mèr og voru litla skipi búnar eru af óstöðugu sjáfarins hafi, sem afmálar mèr dauðans ímynd á hverri öldu, er rís um kríng þessi veiku skipsborð, sem bera mitt líf. Æ, vertu nú míns lífs verndari, minn leiðtogi og minn bezti förunautur! því hverjum skyldi eg þora að trúa fyrir mèr, ef ekki þèr, minn almáttugi faðir og trúfasti lífgjafari! banna þú þínum skepnum, vindi og sjó, að granda mínu og vor allra lífi, þá hlýða þær. Gef oss forsjálega að geta sèð við öllum fyr-

irsjáanlegum hættum, af blindskerjum, boðum, grynníngum og öðru, en afvend sjálfur þeim óþekktu. Uppljúk þinni mildu hendi, og send oss þína blessun! bjóð sjáfarins afgrunni að opna sitt ríka skaut, til að uppfylla vorar nauðþurftir. Þèr fel eg mig með skipi og varnaði, leið þú oss alla farsællega, og vernda oss við öllu tjóni, þá viljum vèr lofa og prísa þína gæzku, sem svo dásamlega annast sín börn. En sè það þinn náðugur vilji, að þessi reisa skuli verða vor dauðagángur, ó, svo gef mèr og oss öllum vel viðbúnum að mæta voru síðasta! Í þínum höndum er vort líf, gjör þú við oss eptir þinni velþóknun, vertu að eins vor faðir, og gef oss eilífa hvíld og sælu hjá þèr, fyrir vors blessaða meðalgángara Jesú Krists forþènustu sakir, amen!

## [redacted] [redacted] góðan afgáng.

Miskunsami guð og faðir! þú einn ert herra lífsins og dauðans; mínir tímar standa í þinni hendi, þú hefir, eptir vísdómi þínum og gæzku,

ákvarðað minna daga tal; þar við hughreystir sig minn andi, er eg þeinki fram á mína óvissu endalykt; þú einn veizt hvað marga eða fáa daga eg á nú eptir ólifaða; gef mèr því vareygðarsamar að brúka og telja þá, því óvissari sem eg er um þeirra tölu og endalykt. Eg veit að mèr, eins og öllum mönnum, er eitt sinn ásett að deya, og þar eptir kemur dómurinn; æ, gef mèr víslega að búa mig þar undir, nú strax á mínum heilbrigðu dögum, svo eg lært fái að deya, áður enn eg dey! Gef mèr opt og alvarlega að þeinkja um mína burtför, gröfina, dóminn og eilífðina; svo mun dauðans umhugsan aptra mèr frá mörgum syndum, en gjöra ástundunarsaman í því sem gott er, og efla má mína sönnu farsæld; dauðans sífelda endurminníng mun gjöra mig aðgætnari um sjálfan mig, vareygðarsaman í meðlæti og vongóðan í mótgángi. En þegar mín dauðastund loks að kemur, gef mèr þá, ó Jesú! í krapti þíns

dauða að yfirvinna allar dauðans ógnanir, svo eg mætti vel tilreiddur, með glaðri von og óskelfdri samvizku skilja við heim þennan og það allt, sem í honum er girnilegt, en innleiðast í þá sælu vistarveru, sem þú hefir öllum þínum trúu þjónum afrekað, fyrir þinn dauða, amen!



